munksins hefur síðan um margar aldir verið notuð til að grafast eftir því, sem í manninum býr. Sé hún notuð réttilega, er hún sem net í hönd veiðimannsins. Eins og netið er lagt í hafið og dregur fiskana þaðan, þannig er sagan gjörð til að leggja hana í mannshjartað og draga syndirnar í ljós, svo þeim verði veitt mótspyrna og þær yfirunnar.

Þýtt hefur

BJÖRG ÞORLÁKSDÓTTIR BLÖNDAL.

---

# Íslenzk hringsjá.

STÆRÐ ÍSLANDS. Prófessor í landafræði við háskólann í Göttingen, leyndarstjórnarráð *Hermann Wagner*, sem áður hefur staðhæft, að flatarmál Íslands samkvæmt réttum mælingum væri 104,785 ▢ rastir (kílómetrar) eða 1903 ▢ mílur, hefur nú í þýzka tímaritinu »Petermann's Mitteilungen« skýrt frá, að við nýjar, einkar nákvæmar, mælingar, sem gerðar hafi verið undir umsjón hans af tveimur mönnum í rannsóknaskóla hans í landafræði, hafi niðurstaðan orðið sú, að hið rétta flatarmál landsins sé 103,000 ▢ rastir. Samkvæmt þessu er stærð landsins rúmum 30 ▢ mílum minni en hún hefur verið talin að undanförnu hin síðari árin, og því miklu nær því, sem áður var álitið, meðan flatarmál þess var talið 1867 ▢ mílur, sem munar litlu frá því rétta. Sé ekki farið strangt í mílnareikninginn og látið hlaupa á tugum virðist því mega telja flatarmál Íslands um 1870 ▢ mílur. *V. G.*

ISLAND UND DIE FAROER von ALEXANDER BAUMGARTNER S. J. Dritte vermehrte Auflage. Freiburg im Breisgau 1902.

Fyrsta útgáfa bókar þessarar kom út 1889 og er það til marks um, hversu mikið mönnum hefur þótt til hennar koma og hversu vinsæl hún hefur orðið, að í fyrra kom hún út í þriðju útgáfu. Það má líka með sanni segja, að bók þessi er bæði fróðleg mjög og skemtileg að lesa; höfundurinn hefur haft glögt auga til að taka eftir því, sem fyrir hann bar, bæði í náttúru landa þeirra, er hann lýsir, og í lífi og háttum íbúanna, og hann hefur frábæra gáfu og stílslega snild til að gera lýsinguna aðlaðandi. Að öðru leyti er þessi ferðasaga partur úr stærra verki, »Nordische Fahrten Skizzen und Studien«. Það er ótrúlega mikið efni, sem dregið er saman í bók þessa, sem höf. hefur safnað með mikilli elju, og alt á sjálfstæðan hátt og með fullu valdi á að koma því í skipulega heild. — Að því er hið sögulega snertir verður eigi varið, að hann dregur nokkuð mikið taum kaþólskunnar hér á landi, fyr og síðar, og lítur hana gegnum heldur rósótt gler; það er að vísu ókostur, þó skiljanlegur sé frá sjónarmiði höfundarins.

Í bók þessari eru eigi fáar þýðingar af ísl. kvæðum, fornum og nýjum, og eru þær yfirleitt ágætar, enda leynir sér ekki í þeim frumleg skáldgáfa þýðandans, því

ekki er það á fám stöðum að þýðingin er betri enda en frumkvæðið. En hins vegar er á sumum stöðum ekki rétt skilið og skal hér nefna einn stað sérstaklega; það er í kvæði Gísla Brynjólfssonar um Jón Arason; í frumkvæðinu stendur:

en seint mun sonur meta,
hve sá hinn aldni vann,
og Ísland aftur geta
svo annan biskupsmann.

en í þýðingunni:

Doch späte Enkel fassen, was dieser Greis gethan:
Island wird wieder schauen solch einen Bischoffsmann.

þ. e. en niðjarnir síðar á tímum munu skilja hvað þessi öldungur hefur unnið. Ísland mun aftur líta annan slíkan biskupsmann. Meiningin í frumkvæðinu er, að það muni seint verða að Ísland eignist slíkan biskup. —

Bókin er í alla staði ágætlega úr garði gerð og ríkulega útbúin með myndum og kortum. *Stgr. Th.*

A. HEUSLER og W. RANISCH: EDDICA MINORA. Dortmund 1903.

Eins og kunnugt er, eru í hinum svo nefndu Fornaldarsögum Norðurlanda allmörg kvæði og lausavísur. Sjálfar eru sögur þessar svo að segja að öllu leyti ósannar og tilbúningur einn frá ýmsum tímum, 12., 13. og 14. öld og mjög misjafnar að gæðum. Í stöku sögum eru þó sannar söguminjar og mennirnir, sem frá er sagt, hafa lifað, en flest eða alt, sem þeir eru látnir gera, er skáldskapur. Sögur þessar eru með sömu gerð og hinar sönnu sögur, líka að því leyti, að í þær eru sett kvæði eða brot af kvæðum og lausavísum. Þessi kvæði og vísur eru víst oftast nær eftir sjálfa söguhöfundana, en stundum eru þau nokkuð eldri að minsta kosti en sagan, eins og hún er nú. En það má telja víst, að hvort sem heldur er, eru þau ekki eldri en frá 12. öld, flest yngri. Höfundarnir vissu vel, að þeir vóru að segja frá mönnum, er áttu að vera töluvert eldri en t. d. Íslands bygging; því gerðu þeir sér far um að leggja sem fornlegastan blæ yfir alt, bæði söguna og kvæðin. Þetta tókst auðvitað misjafnt, og höfundarnir hafa stundum farið villir vega af vanþekkingu, t. d. þegar þeir láta lausavísur vera með ljóðahætti og því um líkt. Höfundarnir hafa oft þekt hin eldri kvæði, einkum eddukvæðin, stælt þau og lánað úr þeim orð og orðatiltæki. Það er meginið af þessum kvæðum og vísum, sem þeir tveir þýzku vísindamenn, próf. A. Heusler og dr. Ranisch, hafa safnað og gefið út í sérstakri bók með fróðlegum og nákvæmum inngöngum og litlu orðasafni, svo og með afbrigðum handritanna eða orðanna. Kvæðin og einkum lausavísurnar eru oft svo mjög riðin við söguna sjálfa, að ilt er að rífa þau út úr efninu, en útgefendurnir setja nægilegar skýringar í hvert skifti. Í safni þessu eru um 430 vísur alls, en slept er um 120, er yngstar vóru og lélegastar. Upp í safn þetta eru þar að auk tekin Trygðamál eftir ýmsum handritum; og er þeim oft skift í vísuorð. Slíkt er fullur misskilningur; Trygðamál verða aldrei til kvæða talin, þótt í þeim finnist orð og setningar, er hafa nokkurs konar vísuorðahreim. Þeim hefðu útgefendurnir því átt að sleppa. Annars er ekkert hægt að hafa á móti vali þeirra, og þeir hafa leyst verk sitt yfir höfuð vel af hendi og samvizkusamlega. Það var vel til fundið að setja þessi kvæði og vísur í eina bók með skýringum; annað mál er það, hvað nafnið sé hagfelt; það þýðir eiginlega »minni kvæði, er skyld eru eddukvæðum«, en þau standa langflest svo langt á baki eddukvæðunum, að það er valla gerandi að kenna þau við þau. Einstöku leiðréttingar mætti gera við tekstann hér og hvar,

og eins mætti finna ýmislegt smávegis að orðasafninu, en ég læt það hjá líða hér (ég hef gert það annarstaðar, í Arkiv f. nord. filol.); ég tek það aftur fram, að inngangarnir eru mjög vandaðir og rækilegir, svo að það er sjaldan eða aldrei, að maður sakni neins. Útgefendurnir eiga mikla þökk skilið fyrir starf sitt og bókin verður mjög þarfleg, t. d. við háskólakenslu.

Helztu kvæðin, er tekin eru, eru: Bjarkamál, kvæði úr Hervararsögu, Innsteinskvæðið (úr Hálfssögu), dánaróður Hjálmars og Hildibrands; sennuvísur úr Ketilssögu og Grímss., Heiðreks gátur, Völsavísurnar, og Buslubæn; þar að auk eru tekin Darraðarljóð úr Njálu.

*F. J.*

KARL BRASET: SPARBU-MAALET. Oslo 1903. Í Noregi er fjöldinn allur til af mállýzkum; yfir 200 eru taldar; hefur svo að segja hver dalur og hvert hérað sína mállýzku. Til samans eru þær kallaðar *bændamálið* til greiningar frá bókmáli því, sem vanalegt er, og tali manna í borgunum, en mál það er danska, sem þó er með dálítið öðrum blæ, en hin eiginlega danska í Danmörk. Í Svíþjóð og Danmörk er líka fjöldi af mállýzkum. Þessar mállýzkur hafa mjög verið rannsakaðar og stundaðar, einkum í Noregi og Svíþjóð. Í Noregi er alt kapp á lagt að halda bændamálinu fram til vegs og gengis, og hefur áunnist mjög mikið; það er ritað allmikið á því, og nýja testamentið hefur verið þýtt á það mál; kennaraembætti í því hefur verið stofnað við háskólann í Kristjaníu og fleira gert til að hnekkja »dönskunni«. Þó eru margir, sem þykir oflangt farið, og stendur deila mikil með mönnum út af því (»málþrefið«). Í Kristjaníu er félag, sem heitir »Studentmaallaget« og hefur það gefið út smárit það, er stendur nefnt fyrir ofan þessa grein; og er svo að sjá, sem það ætli að gefa út heilan flokk af þess konar mállýzkulýsingum; því að þessi ritlingur er nefndur »Norske maalføre I«. Í honum er stutt lýsing á Sparbyggjamálinu (í Þrándheimi) og sýnishorn af því aftan við. Vér treystum oss ekki til að leggja neinn dóm á ritlinginn, en hann sýnist vel og greinilega saminn.

*F. J.*

UM ÞORSTEIN ERLINGSSON hefur mag. phil. *Rolf Nordenstreng* skrifað alllanga ritgerð í finska vikublaðið »Euterpe« (27. sept. 1902) og fer þar mörgum og miklum lofsorðum um skáldskap hans. Kveðst hann fyllilega undirskrifa dóm þann, er Olaf Hansen hafi kveðið upp um hann, »að betra skáld eigi Ísland ekki«, og þá sé þó mikið sagt, því skáldskaparlistin standi á háu stigi á Íslandi.

UM NORÐURLANDAMÁLIN (»Skandinavische Sprachen«) hefur dr. *Aug. Gebhardt* ritað ágæta grein í »Festschrift der Gesellschaft für deutsche Philologie zur Feier ihres 25 jährigen Bestehens«, þar sem gerð er glögg grein fyrir öllum þeim helztu vísindalegum ritum og ritgerðum, sem birzt hafa á síðasta fjórðungi 19. aldarinnar í norrænni málfræði, bæði að því er snertir málmyndalýsing, hljóðfræði, orðskipun, orðskýringar o. fl. Og nær það bæði til forntungunnar (einkum *íslenzkunnar)* og allra hinna nýrri Norðurlandamála. Hverjum þeim, sem vill fá stutt og handhægt yfirlit yfir allar þær nýjungar, sem fram hafa komið í norrænni málfræði á síðari árum, viljum vér ráða til að fá sér þessa ritgerð, því þó hún sé stutt, inniheldur hún ótrúlega mikinn fróðleik í þessu efni.

*V. G.*

---

# Hið sameinaða eimskipafélag.

## Áætlun um strandferðir á Íslandi 1904.

### *I. Vestur um land.*

| Skálholt | 1 | | 2 | | 3 | | 4 | | 5 | | 6 | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | A | B | A | B | A | B | A | B | A | B | A | B |
| | apr. | maí | maí | júní | júní | júlí | júlí | ág. | ág. | sept. | sept. | nóv. |
| **Frá Reykjavík** | 15 | .. | 13 | .. | 10 | .. | 23 | .. | 25 | .. | 26 | .. |
| Í Reykjavík | .. | 10 | .. | 5 | .. | 16 | .. | 21 | .. | 20 | .. | 1 |
| frá Akranesi | .. | .. | .. | .. | 10 | 14 | 23 | 20 | 25 | 18 | .. | .. |
| — Hafnarfirði | .. | .. | 13 | 3 | .. | .. | 23 | .. | .. | 18 | .. | .. |
| — Búðum | 15 | .. | 13 | .. | 10 | 13 | .. | .. | .. | 17 | 26 | 30 |
| — Sandi | 15 | 8 | .. | .. | .. | .. | .. | .. | 25 | 17 | .. | .. |
| — Ólafsvík | 15 | 8 | 14 | 3 | 10 | 13 | 24 | 20 | 26 | 17 | 27 | .. |
| — Grundarfirði | .. | .. | .. | .. | 11 | 13 | 24 | 20 | .. | .. | .. | .. |
| | | | | | | | | | | | | okt. |
| — Stykkishólmi | 16 | 8 | 14 | 3 | 11 | 12 | 24 | 19 | 26 | 17 | 27 | 30 |
| — Hvammsfirði | .. | .. | 15 | .. | 12 | 12 | 25 | 19 | 27 | .. | .. | .. |
| — Skarðstöð | .. | .. | .. | .. | 12 | 11 | 25 | 18 | .. | .. | .. | .. |
| — Flatey | 16 | 8 | 15 | 2 | 12 | 11 | 25 | 18 | 27 | 16 | 27 | 28 |
| — Breiðavík | .. | .. | .. | .. | 13 | 10 | .. | 17 | 27 | .. | .. | .. |
| — Patreksfirði | 17 | 7 | 16 | 2 | 13 | 10 | 26 | 17 | 28 | 16 | 28 | 28 |
| — Tálknafirði | 17 | .. | .. | .. | 13 | 10 | 26 | 16 | .. | 15 | .. | .. |
| — Bíldudal | 18 | 7 | 16 | 2 | 14 | 9 | 26 | 16 | 28 | 15 | 29 | 27 |
| — Dýrafirði | 18 | 6 | 17 | 1 | 14 | 9 | 27 | 15 | 29 | 14 | 29 | 26 |
| — Önundarfirði | 18 | 6 | 17 | 1 | 14 | 9 | 27 | 15 | 29 | 14 | 30 | 26 |
| — Súgandafirði | .. | .. | .. | .. | 14 | 9 | 27 | 15 | .. | .. | .. | .. |
| — Bolungavík | 18 | .. | .. | 1 | 14 | .. | .. | 15 | .. | .. | .. | .. |
| | | | | | | | | | | | okt. | |
| — Ísafirði | 20 | 6 | 18 | 1 | 16 | 9 | 29 | 15 | 30 | 14 | 2 | 26 |
| | | | | maí | | | | | | | | |
| — Aðalvík | .. | .. | 18 | 31 | 16 | 7 | 29 | 13 | .. | .. | .. | .. |
| — Höfn | .. | .. | .. | .. | .. | .. | .. | .. | 30 | 13 | .. | .. |
| — Norðurfirði | .. | .. | 18 | .. | .. | .. | 29 | 12 | .. | .. | 2 | 24 |
| — Reykjarfirði | 20 | 4 | .. | .. | 16 | 6 | .. | .. | 30 | 12 | .. | .. |
| — Steingrímsfirði | 21 | 4 | 19 | 30 | 16 | 6 | 30 | 12 | 31 | 12 | 3 | 23 |
| — Bitrufirði | 21 | 4 | .. | .. | 17 | 6 | 30 | 12 | 31 | .. | .. | .. |
| | | | | | | | ág. | | sept. | | | |
| — Borðeyri | 23 | 4 | 21 | 30 | 19 | 6 | 1 | 12 | 1 | 12 | 5 | 21 |
| — Hvammstanga | 23 | 2 | 21 | 28 | 19 | 4 | 1 | 10 | 1 | 10 | 5 | 18 |
| — Blönduós | 24 | 2 | 21 | 28 | 19 | 3 | 1 | 10 | 1 | 10 | 5 | 17 |
| — Skagaströnd | 24 | 1 | 21 | 27 | 19 | 3 | 1 | 10 | 1 | 10 | 5 | 15 |
| — Kálfshamarsvík | .. | .. | .. | .. | 19 | 3 | .. | .. | 1 | 10 | .. | .. |
| — Sauðárkrók | 25 | 1 | 22 | 27 | 20 | 2 | 2 | 9 | 2 | 9 | 6 | 14 |
| — Kolkuós | .. | .. | .. | .. | 20 | 2 | 2 | 9 | .. | .. | .. | .. |
| — Hofsós | 25 | 1 | 22 | 27 | 20 | 2 | 2 | 9 | 2 | 9 | .. | .. |
| | | apr. | | | | | | | | | | |
| — Haganesvík | 25 | 30 | .. | 27 | .. | 2 | 2 | .. | 2 | 9 | .. | .. |
| — Siglufirði | 25 | 30 | 22 | 26 | 20 | 1 | 3 | 8 | 2 | 9 | 6 | 14 |
| — Ólafsfirði | .. | .. | 22 | 26 | 21 | 1 | .. | .. | 2 | 8 | .. | .. |
| — Dalvík | 26 | 30 | .. | .. | 21 | 1 | 3 | 8 | 2 | 8 | 6 | 13 |
| — Hrísey | .. | .. | 23 | 26 | .. | .. | 3 | 8 | 3 | 8 | .. | .. |
| — Hjalteyri | 26 | 30 | 23 | 26 | 21 | 1 | 3 | 8 | 3 | 8 | 6 | 13 |
| á Akureyri | 27 | .. | 23 | .. | 22 | .. | 5 | .. | 4 | .. | 8 | .. |
| **frá Akureyri** | .. | 30 | .. | 26 | .. | 1 | .. | 8 | .. | 8 | .. | 13 |

ATHUGASEMD um **strandferðirnar.** Á **Unaós, Hornafjörð, Vík, Stokkseyri, Sand, Breiðavík** og **Grímsey** geta skipin aðeins komið, þegar bezt viðrar. — Frá **Reykjavík** og **Akureyri** fara strandskipin jafnan kl. 9 árdegis. Á öðrum stöðum er sá dagur tiltekinn í áætluninni, er skipin megi fara í fyrsta lagi, en félagið ber enga ábyrgð á, þótt þau kunni að tefjast svo, að síðar verði farið. Viðstaðan á millistöðvunum verður svo stutt, sem unt er.

## *Frá Kaupmannahöfn til Íslands*

| | 1. | 2. | 3. | 4. | 5. | 6. | 7. | 8. | 9. | 10. | 11. | 12. | 13. | 14. | 15. | 16. | 17. | 18. | 19. | 20. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | **Laura** | **Vesta** | **Ceres** | **Laura** | **Laura** | **Vesta** | **Ceres** | **Laura** | **Vesta** | **Ceres** | **Laura** | **Vesta** | **Ceres** | **Laura** | **Vesta** | **Ceres** | **Laura** | **Vesta** | **Laura** | **Vesta** |
| **frá Kaupmhöfn** | 12 jan. | 23 febr. | 26 febr. | 4 marz | 8 apr. | 15 apr. | 26 apr. | 27 maí | 7 júní | 17 júní | 5 júli | 24 júlí | 29 júlí | 12 ág | 11 sept. | 13 sept. | 27 sept. | 15 okt. | 12 nóv. | 29 nóv. |
| Leith | 16 — | 27 — | 1 marz | 8 — | 12 — | 19 — | 30 — | 31 — | 11 — | 21 — | 9 — | 28 — | 2 ág. | 16 — | 15 — | 17 — | 1 okt. | 19 — | 16 — | 3 des. |
| Thorshavn* | 18 — | | 3 — | | | 21 — | 2 maí | | 13 — | 23 — | 11 — | | 4 — | | | | 3 — | | *18 — | |
| Klaksvig | | | | | | 22 — | | | 14 — | | | | † aths. | | | | | | | |
| Berufirði | | | 5 — | | | 23 — | | | 15 — | | | | | | | | | | | |
| Fáskrúðsfirði | | | 6 — | | | 24 — | | | 16 — | | | 1 ág. | | | 19 sept. | | | 23 okt. | | 8 des. |
| Eskifirði | | | 6 — | | | 24 — | | | 16 — | | | 2 — | 13 ág. | | 19 — | | | 24 — | | |
| Norðfirði | | | 7 — | | | 24 — | | | 16 — | | | 2 — | | | 19 — | | | 24 — | | |
| Seyðisfirði | | 3 marz | 8 — | | | 25 — | | | 18 — | | | 3 — | 14 ág. | | 20 — | 22 sept. | | 25 — | | 8 des. |
| Vopnafirði | | 4 — | | | | 25 — | | | | | | 3 — | 14 — | | | | | 25 — | | |
| Húsavík | | 5 — | | | | | | | 19 júní | | | | 15 — | | | | | 26 — | | |
| Akureyri | | 8 — | | | | 28 apr. | | | 21 — | | | 5 ág. | 17 — | | | 25 sept. | | 28 — | | |
| Siglufirði | | 8 — | | | | | | | 21 — | | | | | | | | | 28 — | | |
| Sauðárkrók | | 9 — | | | | 28 apr. | | | 22 — | | | 5 ág. | 17 ág. | | | 26 sept. | | 29 — | | |
| Skagaströnd | | 10 — | | | | | | | 22 — | | | | | | | | | 29 — | | |
| Blönduós | | 10 — | | | | 29 apr. | | | | | | 5 ág. | 18 ág. | | | 27 sept. | | | | |
| Reykjarfirði | | 11 — | | | | | | | 22 júní | | | 6 — | | | | | | 30 okt. | | |
| Ísafirði | | 12 — | | | | 30 apr. | | | 23 — | | | 7 — | 20 ág. | | | 29 sept. | | 1 nóv. | | |
| Önundarfirði | | | | | | | | | | | | 7 — | | | | | | | | |
| Dýrafirði | | | | | | | | | 23 júní | | | | 20 ág. | | | | | 2 nóv. | | |
| Bíldudal | | | | | | | | | | | | 8 ág. | 21 — | | | | | | | |
| Patreksfirði | | | | | | 30 apr. | | | 23 júní | | | 8 — | 21 — | | | | | 3 nóv. | | |
| Flatey | | | | | | 1 maí | | | 24 — | | | 8 — | | | | | | | | |
| Stykkishólmi | | | | | | 1 — | | | 24 — | | | 9 — | | | | 30 sept. | | 4 nóv. | | |
| **í Reykjavík** | 23 jan. | 14 marz | 11 marz | 14 marz | 18 apr. | 3 — | 6 maí | 5 júní | 26 — | 27 júní | 15 júlí | 10 — | 23 ág. | 21 ág. | 23 sept. | 3 okt. | 9 okt. | 6 — | 23 nóv. | 13 des. |
| **Til Vesturlandsins:** | | | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| **frá Reykjavík** | 27 jan. | | 15 marz | | 20 apr. | | 11 maí | 8 júní | | 30 júní | | | | | | | 12 okt. | | 27 nóv. | |
| Stykkishólmi | 28 — | | | | 21 — | | 12 — | 9 — | | | | | | | | | 13 — | | | |
| Flatey | | | | | 21 — | | 12 — | 9 — | | | | | | | | | 13 — | | | |
| Patreksfirði | 29 jan. | | | | 22 — | | | 10 — | | | | | | | | | | | | |
| Dýrafirði | 30 — | | | | 22 — | | | 10 — | | | | | | | | | | | 28 nóv. | |
| Önundarfirði | 30 — | | | | 22 — | | | 10 — | | | | | | | | | | | 29 — | |
| **í Ísafirði** | 2 febr. | | 17 marz | | 23 — | | 13 maí | 11 — | | 1 júlí | | | | | | | 15 okt. | | 30 nóv. | |

| | 1. Laura | 2. Vesta | 3 Ceres | 4. Laura | 5. Laura | 6. Vesta | 7. Ceres | 8. Laura | 9. Vesta | 10. Ceres | 11. Laura | 12. Vesta | 13. Ceres | 14. Laura | 15. Vesta | 16. Ceres | 17. Laura | 18. Vesta | 19. Laura | 20. Vesta |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| **Frá Vesturlandinu** | | | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| **frá Ísafirði** | 3 febr. | | 18marz | | 25 apr. | | 15 maí | 13 júní | | 3 júlí | | | | | | | 17 okt. | | 2 des. | |
| Dýrafirði | | | 19 — | | | | 15 — | | | 3 — | | | | | | | 17 — | | | |
| Bíldudal | 4 febr. | | 19 — | | 25 apr. | | 15 — | 13 júni | | 3 — | | | | | | | 18 — | | 3 des. | |
| Patreksfirði | | | 20 — | | | | 16 — | | | 4 — | | | | | | | 19 — | | | |
| Flatey | | | 21 — | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| Stykkishólmi | | | 21 — | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| **í Reykjavík** | 6 febr. | | 23 — | | 27 apr. | | 17 maí | 15 júní | | 6 júlí | | | | | | | 21 okt. | | 5 des. | |
| **frá Reykjavík** | 10 febr | 20marz | 26marz | 18marz | 29 apr. | 10 maí | 20 maí | 17 júní | 1 júlí | 9 júlí | 20 júlí | 14 ág. | 27 ág. | 28 ág. | 27 sept. | 10 okt. | 24 okt. | 10 nóv. | 9 des. | 18 des. |
| Stykkishólmi | | | | | | | | | 2 — | | | 15 — | | 29 — | | | | | | |
| Flatey | | | | | | | | | 2 — | | | 15 — | | 29 — | | | | | | |
| Patreksfirði | | | | | | | | | | | | 16 — | | | | | | | | |
| Bíldudal | | | | | | 11 maí | | | 3 júlí | | | | | 30 ág. | | | | | | |
| Dýrafirði | | | | | | 11 — | | | | | | 16 ág. | | 30 — | | | | | | |
| Önundarfirði | | | | | | | | | 3 júlí | | | | | | | | | | | |
| Ísafirði | | | | | | 13 maí | | | 4 — | | | 17 ág. | | 1 sept. | | 12 okt. | | | | |
| Reykjarfirði | | | | | | | | | | | | 17 — | | | | 13 — | | | | |
| Borðeyri | | | | | | | | | | | | 18 — | | | | | | | | |
| Blönduós | | | | | | | | | 4 júlí | | | | | 1 sept. | | 14 okt. | | | | |
| Skagaströnd | | | | | | 13 maí | | | | | | | | | | 15 — | | | | |
| Sauðárkrók | | | | | | 14 — | | | 5 júlí | | | 19 ág. | | 2 sept. | | 16 — | | | | |
| Siglufirði | | | | | | 14 — | | | | | | | | | | 17 — | | | | |
| Akureyri | | | | | | 16 — | | | 7 júlí | | | 20 ág. | | 4 sept. | | 20 — | | | | |
| Húsavík | | | | | | 16 — | | | | | | 20 — | | | | 20 — | | | | |
| Vopnafirði | | | | | | | | | 8 júlí | | | | | 5 sept. | | 21 — | | | | |
| Seyðisfirði | | | 29marz | | 2 maí | 17 maí | 23 maí | | 9 — | | | 22 ág. | | 6 — | | 23 — | | | | |
| Norðfirði | | | 29 — | | 2 — | | 23 — | | 9 — | | | | | 6 — | | 23 — | | | | |
| Eskifirði | | | 30 — | | 2 — | | 24 — | | | | | 22 ág. | | 7 — | | | | | | |
| Fáskrúðsfirði | | | 30 — | | 3 — | | 24 — | | 9 júlí | | | 22 — | | 7 — | | 24 okt. | | | | |
| Berufirði | | | | | | | 24 — | | | | | 23 — | | | | | | | | |
| Klaksvig | | | | | | | | | | 12 júlí | | | | 9 sept. | | | | | | |
| Thorshavn* | | | 1 apr. | | 4 — | | 26 maí | 20 júní | | 12 — | | | | 10 — | 30 sept. | 25 okt. | | | | 21 des. |
| Leith | 16 febr. | 26marz | 4 — | 24marz | — | 21 maí | 29 — | 23 — | 14 júlí | 15 — | 25 júlí | 27 ág. | 1 sept. | 13 — | 3 okt. | 28 — | 30 okt. | 16 nóv. | 15 des. | 24 des. |
| Christianssand | | | | | | | | | | | | | | | | 31 — | | 19 — | | |
| **í Kaupmhöfn** | 21 febr. | 31marz | 8 apr. | 25marz | 11 maí | 25 maí | 2 júní | 27 júní | 17 júlí | 18 júlí | 29 júlí | 31 ág. | 5 sept. | 17 sept. | 7 okt. | 2 nóv. | 3 nóv. | 21 — | 20 des. | 30 des. |

# Hið sameinaða eimskipafélag.

## Áætlun um strandferðir á Íslandi 1904.

---

### *II. Austur um land:*

| Hólar | 1 | | 2 | | 3 | | 4 | | 5 | | 6 | | 7 | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | A | B | A | B | A | B | A | B | A | B | A | B | A | B |
| | apr. | maí | maí | júní | júní | júlí | júlí | ág. | ág. | ág. | sept. | sept. | okt. | ok |
| **Frá Reykjavík**... | 15 | .. | 16 | .. | 10 | .. | 9 | .. | 7 | .. | 4 | .. | 3 | .. |
| í Reykjavík..... | .. | 9 | .. | 6 | .. | 4 | .. | 3 | .. | 31 | .. | 29 | .. | [illegible] |
| frá Keflavík..... | .. | .. | 16 | .. | 10 | 3 | 9 | 2 | 7 | 30 | 4 | 28 | .. | [illegible] |
| — *Stokkseyri .. | .. | .. | 17 | 5 | .. | 3 | 10 | 1 | 8 | 30 | 5 | .. | .. | .. |
| — Vestm.eyjum . | 15 | 7 | 17 | 5 | 11 | 2 | 10 | 1 | 8 | 29 | 5 | 27 | 3 | [illegible] |
| — Vík ........ | 16 | 7 | 17 | 5 | 11 | 2 | 10 | 1 | 8 | 29 | 5 | .. | .. | .. |
| — Hornafirði ... | 17 | 6 | 18 | 4 | 12 | 1 | 11 | júlí 31 | 9 | 28 | 6 | 27 | .. | . |
| — Djúpavog.... | 17 | 6 | 19 | 4 | 12 | 1 | 12 | 31 | 10 | 28 | 6 | 26 | 5 | [illegible] |
| — Breiðdalsvík.. | 17 | 5 | 19 | 3 | 12 | 1 | 12 | 31 | 10 | 28 | 7 | 25 | 5 | [illegible] |
| — Stöðvarfirði .. | .. | .. | .. | .. | 13 | 1 | 12 | 31 | 10 | 28 | .. | 25 | .. | [illegible] |
| — Fáskrúðsfirði . | 18 | 5 | 20 | 3 | 13 | júní 30 | 13 | 30 | 11 | 27 | 7 | 25 | 6 | [illegible] |
| — Reyðarfirði .. | 18 | 4 | 20 | 3 | 13 | 30 | 13 | 30 | 11 | 27 | 7 | 24 | 6 | [illegible] |
| — Eskifirði ..... | 18 | 4 | 20 | 2 | 14 | 30 | 13 | 30 | 11 | 27 | 8 | 24 | 7 | [illegible] |
| — Norðfirði .... | 19 | 3 | 21 | 2 | 14 | 29 | 14 | 29 | 12 | 26 | 8 | 23 | 7 | [illegible] |
| — Mjóafirði .... | 19 | 3 | 21 | 2 | 14 | 29 | 14 | 29 | 12 | 26 | 8 | 23 | 7 | [illegible] |
| — Seyðisfirði ... | 21 | 3 | 22 | 2 | 16 | 29 | 15 | 29 | 13 | 26 | 10 | 23 | 10 | [illegible] |
| — Loðmundarf.. | .. | .. | 22 | .. | 16 | 27 | .. | .. | .. | 24 | .. | .. | .. | .. |
| — Borgarfirði... | 21 | 1 | 22 | maí 31 | 16 | 27 | 15 | 27 | 13 | 24 | 10 | 20 | 10 | [illegible] |
| — Unaós ...... | .. | .. | .. | .. | 16 | 27 | 15 | 26 | .. | .. | .. | .. | .. | .. |
| — Vopnafirði ... | 21 | 1 | 22 | 31 | 17 | 27 | 15 | 26 | 13 | 24 | 10 | 20 | 10 | [illegible] |
| — Bakkafirði ... | 21 | .. | 23 | 31 | 17 | 27 | .. | .. | 14 | 23 | .. | 19 | 11 | [illegible] |
| — Gunnólfsvík .. | .. | .. | 23 | 31 | .. | .. | .. | .. | 14 | 23 | .. | .. | .. | .. |
| — Þórshöfn .... | 22 | apr. 30 | 23 | 30 | 17 | 26 | 16 | .. | .. | 23 | 11 | 19 | .. | [illegible] |
| — Raufarhöfn... | .. | .. | 23 | 30 | 18 | 26 | 16 | 26 | 14 | 23 | 12 | .. | .. | .. |
| — Kópaskeri ... | .. | 30 | 24 | 30 | 18 | 26 | .. | 25 | 15 | 22 | 12 | 19 | .. | .. |
| — Húsavík ..... | 23 | 29 | 24 | 29 | 18 | 26 | 17 | 25 | 15 | 22 | 12 | 19 | 12 | [illegible] |
| — Flatey ...... | .. | .. | 24 | .. | 19 | 25 | 17 | 25 | 15 | 21 | .. | .. | .. | |
| — Grímsey ..... | .. | .. | .. | .. | 19 | 25 | .. | .. | .. | .. | 12 | 18 | .. | .. |
| — Grenivík..... | .. | .. | 24 | 29 | 19 | 25 | 17 | 24 | 16 | 21 | 13 | 18 | 12 | .. |
| — Svalbarðseyri. | .. | .. | .. | .. | 20 | 25 | 18 | 24 | 16 | 21 | 13 | 18 | .. | [illegible] |
| á Akureyri...... | 24 | .. | 25 | .. | 21 | .. | 19 | .. | 18 | .. | 14 | .. | 14 | .. |
| **frá Akureyri**.... | .. | 29 | .. | 29 | .. | 25 | .. | 24 | .. | 21 | .. | 18 | .. | [illegible] |

* Þegar ekki er unt að koma við á skipalæginu fyrir utan **Stokkseyri**, eða þegar ekki verð komizt í land fyrir brimi, kemur skipið við í **Þorlákshöfn**, ef ástæður leyfa.

ATHUGASEMD um **ferðir milli landa.** Í **Vestmannaeyjum** verður komið við í hverri fe suður um land, bæði út og utan, svo framarlega sem því verður við komið. Eftir komu skipanna Reykjavíkur sunnan um land verður einnig komið við í **Hafnarfirði** (nema í 12. ferðinni), þe nægilegan farm er að flytja þangað. Þegar sömu skilyrði eru fyrir hendi, geta skipin í þessum ferðu komið við á **Akranesi**, ef því verður við komið og full ástæða virðist til þess. — **Frá Kaupmann höfn** fara skipin jafnan kl. 9 árdegis og frá Reykjavík kl. 6 síðdegis. Á millistöðvum er fyr fardagur tiltekinn, en farþegar mega búast við, að síðar kunni að verða farið. — **Fargjald** m Íslands og útlanda er í 1. farrými 90 kr. (báðar leiðir 160 kr., nema milli Skotlands og Íslan 144 kr.) og í 2. farrými 60 kr. (báðar leiðir 100 kr.). Fyrir fæði greiðist á dag í 1 farrými 4 og í öðru farrými 2 kr. Hálfu minna fyrir börn.

## EFNISYFIRLIT.

# EIMREIÐIN.



RITSTJÓRI:

DR. VALTÝR GUÐMUNDSSON.

---

EIGENDUR: NOKKRIR ÍSLENDINGAR.

X. ÁR. 2. HEFTI.

KAUPMANNAHÖFN.

PRENTAÐ HJÁ S. L. MØLLER.

1904

ÚTSÖLUMENN Eimreiðarinnar *á Íslandi utan Reykjavíkur* eru beðnir að endursenda það, sem óselt kann að liggja hjá þeim af eldri árgöngum og ekki er von um að seljist.

# Jens Hansen,

Vestergade 15, Kjøbenhavn K.

*Stærstu og ódýrustu birgðir í Kaupmhöfn af steypumunum*

**við hæfi Íslendinga.**






GEYSISOFN (síbrennandi) á 20 kr. og þar yfir.




Eldavél á 20 kr.

Sérstaklega mæli ég með *ofnum* með magazínbrenslu, með eldunarhólfi og hristirist eða án þeirra, á 18 kr. og þar yfir, er fást í meira en 100 mismunandi stærðum. Ennfremur má nefna eldavélar með steikarofni og vatnskatli, 3—5 mjög stórum suðuholum, á 20 kr. og þar yfir; þær má og fá þannig lagaðar, að þær megi setja niður lausar á mitt gólf með eða án múrhleðslu. Skipseldavélar í þilskip. Skipsofna og eldakompuvélar án múrhleðslu í skip og fiskibáta má fá með eldunarholum og magazínbrenslu. Ennfremur birgðir af steinolíuofnum



GEYSISOFN (síbrennandi) á 35 kr. og þar yfir.




úr járni, kopar og messing, af nýjustu og beztu gerð, sem til er. *Ofnpípur* úr smíða- og steypujárni af ýmsri stærð. Járnglugga í húsþök og byggingar af alls konar stærð. Galvaníseraðar fötur og þvottabalar. Gleraðar og ósmeltar steikarpönnur og pottar. Gleraðar járnkaffikönnur, tepottar, diskar, bollar o. fl.

Yfir alt þetta er til verðskrá með myndum, sem send verður ókeypis hverjum þeim, sem lætur mig vita nafn sitt og heimili.

# Barnadauði á Íslandi.

Í hinni fróðlegu ritgjörð »Framfarir Íslands á 19. öldinni« (Eimreiðin 1900), telur dr. Valtýr Guðmundsson það meðal hinna mestu framfara, hve barnadauðinn hefur farið minkandi. Segir hann barnadauðann vera nú aðeins þriðjung þess, sem hann var um miðja öldina. Ýmsir hafa farið um þetta líkum orðum, en læknunum, sem vita hve meðferð ungbarna er ábótavant á Íslandi, mun hafa hætt til þess, að halda oss eigi að síður eftirbáta annarra í þessu efni.

Að vita vissu sína um þetta er auðsjáanlega þýðingarmikið, en engir hafa, svo mér sé kunnugt, athugað barnadauða á Íslandi yfir lengra tímabil eða borið hann saman við önnur lönd. Ég hef því aðgætt þetta eftir föngum, og skal nú geta þess stuttlega, hvers ég hef orðið vísari.

Heimildarrit um barnadauða á Íslandi eru ófullkomin og ná ekki langt. Í »Skýrslum um landshagi á Ísl.« og »Stjórnartíðindunum» eru prentaðar skýrslur um hann, en þær ná eigi lengra fram en til 1838. Um ástandið þar á undan vantar alla áreiðanlega vissu.

Schleisner getur þess í Nosografi sinni (1848), að hann hafi rannsakað kirkjubækur nokkurra sókna og komizt að þeirri niðurstöðu, að á þeim árum, sem engar landfarsóttir gangi, deyi á fyrsta ári 300 börn af hverjum 1000, sem fæðast, og hafi það hlutfall haldist um mörg ár. Hann telur og að helmingur allra dáinna séu börn á fyrsta ári.

Á 18. öldinni hefur barnadauðinn verið mjög mikill, en hve mikill, vitum vér með engri vissu. Eggert Ólafsson og Bjarni Pálsson segja í ferðabók sinni, að algengt sé, að af 12—15 börnum, lifi aðeins 2—3. Flest börn segja þeir deyja á 1. og 2. ári, en barnadauði á Ísl. sé yfirleitt miklu meiri en í útlöndum.

Hannes biskup Finnsson hefur skrifað ritgjörð í Lærdómslistafélagsritin um barnadauða á Ísl., sumpart til að mótmæla Eggert og Bjarna. Hann hefur aðeins rannsakað tímabilið 1763—67 og kemst að þeirri niðurstöðu, að 380 ‰ allra dáinna séu börn innan 5 ára að meðtöldum andvanafæðingum. Telur hann Ísl. ekki standa ver að vígi en aðrar þjóðir og ber saman barnadauða hér og ytra til sönnunar sínu máli, og átti eftir því að vera ver ástatt víða annarstaðar. Skýrslur þær, sem hann byggir á, eru ónákvæmar og tímabilið of stutt til þess, að fá rétta hugmynd um ástandið, en annars er margskonar fróðleikur í ritgjörð Hannesar. Tilvitnanir hans í útlendar bækur sýna, hve skoðanir lærðra manna á meðferð ungbarna hafa verið fáránlegar. »Hinn nafnfrægi Unzer« t. d. álítur mjög eðlilegt, að barnadauði sé alstaðar mikill, »því eins og flestir ávextir detta af ungir, áður en þeir eru fullþroskaðir, og þar sem flest dýr deyja ung, svo lifi og fæstar manneskjur fram yfir barnæskuna«. Sami höfundur segir mjög skaðlegt að taka barnfóstru (Amme) »að það sé oft eigi annað en að koma svo kaupi sínu við hana, að hún fyrir 24 rdl. drepi barnið«. Þess vegna ræður Hannes biskup frá því að nota barnfóstrur og telur að þær eigi sinn þátt í barnadauðanum. Móðurmjólkina álítur hann mjög skaðlega og langt að baki kúamjólkinni — »því sá hálærði Van der Monde, hefur fært mörg rök til þess, að kúamjólk sé langtum betri til barnaeldis en móðurmjólkin«. Hann álítur mjög skaðlegt að hossa og hampa börnunum »og dettur honum í hug barnið, sem dr. Huber krauf og fann brjóstbeinið bogið eins og hnakk og fingraför fóstrunnar á v. síðunni, auðsjáanlega eftir þess konar hamp«.

Eflaust hefur öll meðferð á ungbörnum verið mjög ófullkomin á Íslandi sem annarstaðar um þær mundir, og má meðal annars ráða það af bækling, sem P. Thorsteinsson nokkur, læknir í Túnsbergi, hefur ritað á latínu um þær mundir: »Um hina rammvitlausu meðferð ungbarna á Íslandi« — en hér er ekki rúm til að minnast frekar á hann.

Við barnadauða skilur maður vanalega dauða barna innan eins árs og innan fimm ára. Þessi fyrstu ár eru hin hættulegustu árin á mannsæfinni, eins og sjá má af því, að t. d. í Berlín er talið að 40—50 % allra dáinna séu börn innan 5 ára og 30—40 % innan 1 árs. Hagfræðingar miða barnadauðann við, hvað mikið fæðist af börnum ár hvert, og telja hann í pro cent eða pro mille

þannig, að þegar t. d. er sagt að dauði barna innan eins árs sé 100 ‰ og barna innan fimm ára 200 ‰ yfir víst tiltekið tímabil, þá er þar með átt við, að af hverjum 1000 lifandi fæddum börnum hafi 100 og — 200 dáið. Andvana börn eru eigi talin með, því aðallega vill maður vita, hvernig þjóðunum tekst að koma hinum lifandi fæddu börnum á legg. Andvana fæðingar eru spursmál fyrir sig, sem hefur sérstaka þýðingu.

Til þess að fá rétta hugmynd um barnadauðann á Ísl., verður að athuga langt tímabil. Ég hef tekið fyrir 60 árin frá 1841—1900. Á þessu tímabili er dauði barna innan eins árs 215 ‰.

Ef vér aðgætum þessi 6 tíu ára tímabil hvert fyrir sig, þá er hlutfallið þetta:

Af hverjum 1000 lifandi fæddum börnum
deyja á fyrsta ári:

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1841—1850 | 313,3 | 1871—1880 | 188,8 |
| 1851—1860 | 237,9 | 1881—1890 | 194,7 |
| 1861—1870 | 252,0 | 1891—1900 | 119,2 |

Af þessu sést, hve barnadauðinn hefur farið drjúgum minkandi, en mjög ójafnt. Þessar ójöfnur koma þó enn betur í ljós, ef vér fylgjum barnadauðanum ár frá ári og sést þá glögglega, að þær stafa því nær eingöngu af því, hvort landfarsóttir ganga að mun eða ekki, eins og eftirfylgjandi tafla sýnir:

Ár dóu af hverju 1000 lifandi fæddra barna: Landfarsóttir á börnum:




BARNADAUÐI Á ÍSLANDI FRÁ 1841—1900.

Efri línan (a) sýnir ‰ tölu dáinna innan 5 ára, neðri línan (b) innan 1 árs. — Andvanafæðingar eru alstaðar frá dregnar.

Taflan sýnir, hve barnadauðinn er ákaflega misjafn ár frá ári. Ef til vill hefur hann í engu landi verið eins snögt tilbreytilegur. Þetta er að kenna farsóttum, sem fluzt hafa til landsins og gengið yfir; í öðrum löndum eiga þær heima að staðaldri og koma því þar jafnara niður.

Þær farsóttir, sem mestan usla hafa gjört hjá oss, eru mislingar, barnaveiki og kíghósti; þær mynda eins og háa dranga upp úr hálendi barnadauðans, einkanlega mislingarnir (sjá töfluna). Dauði ungbarna innan 1 árs og innan 5 ára fylgist nokkurn veginn að, það er helzt barnaveikisárin, sem töluverður munur verður á, vegna þess að barnaveikin hefur orðið skæðari eldri börnunum.

Barnaveikin má heita orðin innlend (endemisk). Hún hefur gjört vart við sig við og við yfir alt tímabilið, en einkum var hún skæð á árunum 1860—1880. Það er eins og öll þau ár gangi stór, samanhangandi landfarsótt af henni.

Barnadauði er mestur árin: 1846 (mislingar), 1860 (barnaveiki) og 1882 (mislingar).

Mest hefur dáið af börnum innan eins árs 1882 ɔ: 439 ‰.
Minst — — - — — — — 1889 ɔ: 90 ‰.

Svo er alment talið, að mikill barnadauði beri vott um lágt menningarstig hjá þjóðunum; það er sagt, að meðal skrælingja og villiþjóða sé hann mjög hár, en áreiðanlegar skýrslur um það vantar. Þar sem þær eru fyrir hendi, eins og í Evrópu, sést að mikið er hæft í þessu, því hjá Rússum og Ungverjum er barnadauðinn mestur.

*Hvernig stöndum vér nú að vígi í samanburði við aðrar Evrópuþjóðir?*

Árin 1891—1895 var hlutfallið það, sem eftirfylgjandi tafla sýnir:




Taflan er mjög fróðleg að því er snertir útlöndin, en hvað Íslandi viðvíkur, gefur hún manni alveg ranga hugmynd um hið sanna ástand. Ísland stendur hér aðeins lítið ver en Svíþjóð og Noregur, þar sem ástandið er bezt. Þetta liggur í því, að hið stutta tímabil (5 ár), sem tekið er til athugunar, er altof stutt til þess, að sýna hið rétta hlutfall. Á þessu tímabili vill sem sé svo

vel til, að vér erum lausir við skæðar landfarsóttir og sýnir það því aðeins, hve Ísland gæti staðið sig vel, ef það losnaði við þær. Útlöndin eru aftur á móti aldrei laus við þessar farsóttir, þær liggja stöðugt í landi, eru »endemiskar« sem kallað er, og koma jafnt niður ár frá ári að heita má; þar af leiðir og að barnadauðinn í útlöndum hefir aðeins lítið minkað síðustu 40 ár, svo að samskonar samanburðartafla frá 1865—78 er næstum því óbreytt að því er útlöndin snertir; en þar stendur Ísland næst Austurríki sem 3. í röðinni að ofan með um 230‰ barnadauða.

Ef vér viljum fá réttari hugmynd um hlutfallið milli barnadauðans á Ísl. og erlendis, þá verðum vér að taka fyrir svo langt tímabil, að á því hafi gengið allar þær landfarsóttir, sem skæðastar eru börnunum, svo sem mislingar, kíghósti og barnaveiki, og þetta getum vér með því að skoða 30 ára tímabilið 1871—1900, því að á því hafa allar þessar sóttir gengið. Á því tímabili er barnadauðinn að meðaltali 166‰ eða með öðrum orðum: barnadauðinn á Íslandi er svipaður og á Frakklandi.

Þetta virðist nú að vísu all-álitlegt; en spyrja má: Getum vér þannig beint borið oss saman við útlöndin? Er eigi svo mörgu hjá oss ólíkt háttað því, sem tíðkast í útlöndum, að samanburður á barnadauða hér og þar sé ómögulegur vegna þess, að bornar séu saman ósamkynja stærðir. Til þess að svara þessu, verðum vér að íhuga þau aðalatriði, sem hafa áhrif á barnadauðann, og sjá hver eru sameiginleg á Íslandi og erlendis, hver finnist eingöngu erlendis og hver hér.

Vér höfum þegar séð að landfarsóttir eru skæðir barnamorðingjar, en eins og áður er sagt, er ólíkt á Íslandi og í útlöndum að því, að farsóttir koma hér með köflum, geisa yfir landið og fella fólkið unnvörpum, en halda síðan lengri eða skemri vopnahlé. Þessar farsóttir hafa verið tíðari hér, en í nokkru öðru landi í Evrópu, eftir því sem Schleisner hyggur. Barnaveikin er að vísu orðin innlend, en mislingar og kíghósti mega enn þá heita útlendir gestir. Það eru þessar sóttir, sem mest hafa deytt af börnum hjá oss. Í útlöndum, þar sem sóttir þessar eru innlendar, ber ekki eins mikið á þeim, vegna þess að þær fara ekki eins geyst yfir, en sá skaði, sem þær valda, er þó óefað að jafnaði eins mikill og hér, svo að í þessu efni er að öllum líkindum svipað með Ísland og útlöndin. Hins vegar má heita að vér séum lausir við skarlatssótt enn þá, því að minsta kosti hefur hún lítinn skaða

unnið enn. Hún er talin fremur slæm veiki á börnum í útlöndum og á töluverðan þátt í barnadauða þar.

Sá sjúkdómur, sem talinn er skæðastur börnum á 1. ári í útlöndum, er barna-kólera eða lífsýki, sem geisar stundum á sumrin. Þessi veiki er hvorki nærri því eins algeng heima né eins skæð, að því er ég hygg. Aftur er mér nær að halda að lungnasjúkdómar komi harðara niður á íslenzkum börnum en útlendum; en um þetta vantar áreiðanlegar skýrslur til samanburðar við önnur lönd.

Syfilis eða sárasótt, fransós, er næstum óþektur sjúkdómur hjá oss, en algengur í útlöndum og á talsverðan þátt í barnadauðanum þar, máske þó mest í andvanafæðingum[1], en þær koma oss eigi við hér.

Þá er Rachitis eða enska veikin (beinkröm?) eigi sjaldgæft dauðamein barna í útlöndum, en mjög sjaldgæft heima, og svo mætti máske nefna fleiri sjúkdóma, sem eru algengari á börnum í útlöndum.

En allir sjúkdómar, hverju nafni sem þeir nefnast, heimta vissan jarðveg til útbreiðslu, og þetta atriði skulum vér einnig athuga, til þess að sjá, hvort vér í því efni séum ekki einnig frábrugðnir útlöndum.

Barnadauði er hvergi eins mikill og í stórborgum, jafnvel í þeim borgum, sem að hollustu standa fremst í flokki, er hann ólíku meiri en utan bæja. Þetta stafar sumpart af því, að sóttir eru algengar þar sem margir eru saman komnir, og sumpart af því, að fátækt er þar yfirgnæfandi mikil, en meðal fátæklinga er óþrifnaður og þar af leiðandi vanþrif barna á mjög háu stigi.

Það þarf ekki einu sinni stóra borg til; strax í smærri bæjum og þorpum er barnadauði töluvert meiri en úti á landsbygðinni. Svo ramt kveður að barnadauða í borgum, að jafnvel börn ríkra og vel settra borgara falla fremur, en börn fátæku bændanna í

[1] Andvanafæðingar eru færri hjá oss en í útlöndum, og liggur það aðallega í því, að syfilis en hér svo sjaldgæfur. Ég hef talið þær saman fyrir alt tímabilið 1841—1900, og eru þær mjög breytilegar ár frá ári, frá 26 ‰ minst, til 48 ‰ mest. Hins vegar sýnir sig sama hlutfallið hér og annarstaðar, að sveinbörn fæðast oftar andvana en meybörn. Hvernig á því stendur, vita menn enn þá eigi með vissu. Ég hef ekki getað fundið, að andvanafæðingar hjá oss hafi fylgt nokkrum reglum í breytingum sínum. Vöxtur þeirra og rénun fylgir ekki landfarsóttum, eins og annar manndauði, og ekki virðast þær hafa neitt minkað með fjölgandi læknum og yfirsetukonum, eins og hefði mátt ætla.

sveitinni. Vér sáum t. d. á töflunni hér að framan, að Saxland, sem annars stendur hátt að allri menningu, hefur mikinn barnadauða. Það liggur aðallega í því, að þar er iðnaður mikill og hver verksmiðjan við aðra og þess vegna mikið af iðnaðarfólki, sem er illa sett að efnum og fremur óþrifið.

Það sem með mannmergðinni, fátæktinni og óþrifunum hjálpar til að auka barnadauðann í borgunum, er, að tala óskilgetinna barna er þar miklu meiri en úti á landsbygðunum. Það sýnir sig í flestum löndum, að meðal þeirra er hrunið mest. Jafnvel í Kaupmannahöfn, sem þó má telja allvel setta, deyr af þeim 369 °/oo. Þetta liggur í hinni slæmu meðferð barnaaumingjanna. Feðurnir finnast ekki, en mæðurnar sitja uppi með börnin bláfátækar og ala þau þá upp í örbirgð og volæði, eða þær koma þeim í fóstur hjá illþýði, sem tekur við börnunum aðeins til þess að fá peninga, en ekki í þeim tilgangi að halda lífinu í þeim.

Nú erum vér Íslendingar betur settir en útlöndin að því leyti, að vér höfum engar stórborgir, en aðeins smáþorp, þar sem lífið er svipað sveitalífinu. Ef til vill er dálítill munur á barnadauðanum í sveitinni hjá oss og þessum þorpum, en þar eð mig vantar skýrslur um það, get ég eigi sagt það með vissu. Í »Skýrslum um landshagi á Íslandi«, er við og við tekið fram, hvar á landinu sé mestur barnadauði það og það árið, en það er þá sitt í hverri sýslunni og virðist engum reglum bundið. Mér er því nær að halda, að munurinn á sveitum og bæjum sé næsta lítill enn sem komið er; hinsvegar er ég hræddur um, að í sjóplássum meðal þurrabúðarfólks sé barnadauðinn mestur.

Tala óskilgetinna barna er svipuð á Íslandi og þar sem hún er með meira móti í útlöndum, lausaleikur hefur ekki farið mjög minkandi síðan 1850, en þá var hann talinn tiltölulega tíðari en í öðrum löndum (sjá Skýrslur um landshagi).

Í stuttu máli, vér stöndum betur en útlöndin að því er snertir barnadauða, að því leyti að vér höfum:

| | |
|---|---|
| svo sem engan: | Syfilis, |
| miklu minna af: | Barnakóleru, |
| og: | Rachitis, |
| næstum enga: | Skarlatssótt, |
| engar: | Stórborgir, |
| og betri meðferð á: | Óskilgetnum börnum. |

Af þessu sést, að vér megum eigi bera oss saman við útlöndin alment. Jafnari verður samanburður við alþýðu í sveitum erlendis og þá einkum á Norðurlöndum, því lifnaðarhættir Íslendinga verða svipaðastir og hjá fólki þar. Hin 6 atriði, sem fyr eru talin, gjöra þar næsta lítinn mun.

Eftirfarandi tafla sýnir mismuninn á barnadauðanum á Íslandi og meðal bændafólks í Danmörku á jafnlöngum tímabilum:




Hér er borinn saman dauði ungbarna innan eins árs. — Af töflunni sést, að vér stöndum að baki dönsku bændafólki hvað barnadauða snertir, en þar sem barnadauðinn hjá þeim hefur nokkurnveginn staðið í stað, hefur hann rénað töluvert hjá oss á seinni helming 60 ára tímabilsins.

Í ýmsum öðrum löndum er ástandið svipað í sveitum og í Danmörku, í sumum, eins og t. d. Skotlandi, er barnadauðinn minni.

Af öllu því, sem nú er skráð, má draga eftirfylgjandi ályktanir:

a.) Dauði ungbarna innan 1 árs hefur minkað næstum ²/₃ frá því um miðja umliðna öld.

b.) Dauði ungbarna innan 5 ára hefur minkað að sama skapi.

c.) Þessi mikla rénun barnadauðans er mjög að þakka því, að landfarsóttir hafa verið minni og mildari síðari árin.

d.) Að landfarsóttirnar hafa verið sjaldnari og minna skæðar síðari árin, er aftur að þakka betri sóttvörnum, eins og sja má af því, að barnaveiki t. d. hefur víða gosið upp síðari árin, en ekki náð neinni verulegri útbreiðslu. Að sóttvarnir séu betri nú en um miðja öldina, tel ég óefað, en hins vegar er þeim mjög ábótavant enn þá, eins og ráða má af því, hve

illa hefur tekist að stemma stigu fyrir skarlatssóttinni, þrátt fyrir um 40,000 kr. tilkostnað.

e.) Rénun barnadauðans er ekki eingöngu að þakka minni landfarsóttum en áður. Ef vér athugum þau ár um miðja öldina, sem engar landfarsóttir gengu, og svo síðustu árin, sem einnig hafa verið stórsóttalaus, þá sjáum vér töluverðan mun, t. d. árið 1853, þá er barnadauðinn 156 ‰, en árið 1899 aðeins 89,6 ‰, það sýnir með öðrum orðum töluverðar framfarir, en þær eru að þakka ýmsu, svo sem betri mentun, fleiri læknum, betri yfirsetukonum o. fl.

f.) En þó að oss hafi farið fram, stöndum vér enn að baki ýmsum öðrum þjóðum, þrátt fyrir að vér höfum ýms hlunnindi fram yfir þær. Vér stöndum þannig talsvert ver en alþýða í Danmörku, sem oss væri þó eigi ofætlun að jafnast við.

### Hvað eigum vér að gjöra til að minka barnadauðann enn meira?

Menn eru farnir að sjá, að það hefur mikla þýðingu, að varðveita líf og heilsu barnanna, sem síðar eiga að verða borgarar og bústólpar landanna.

Í fornöld voru veil börn og vansköpuð borin út. Svo var gjört á Grikklandi og einnig á Íslandi. Þetta var að sumu leyti gott, því líklegt er, að kynslóðin hafi orðið hraustari fyrir bragðið, en því miður vildi það eigi sjaldan til, að einnig hraustu börnin voru út borin (sbr. t. d. Gunnlaugs sögu ormstungu), svo það er vafa undirorpið, hvort ágóðinn hefur verið nokkur. Nú er öldin önnur og hugsunarhátturinn annar; fyrsta skylda læknisins er að varðveita og lappa upp á lífið, svo lengi sem nokkur ögn er eftir af því, svo að þess vegna eru víst allir á eitt sáttir um, að sjálfsagt sé að minka barnadauðann eftir megni. Það er einkum tvent, sem vér getum gjört í þessa átt:

1. Reyna sem mest að verjast landfarsóttum.
2. Fræða alþýðu um meðferð ungbarna.

Hvað hinu fyrra viðvíkur, ættum vér að verða hygnir af skaða, við að sjá, hvílíkt tjón landfarsóttir, einkum mislingar, barnaveiki og kíghósti vinna. Ef allir læknar reyna, sem mest þeir mega, að varna útbreiðslu þessara sótta, og væri til þess leyft að nota talsvert fé, þá gæti þar með unnist ómetanlegt gagn. Hve mikið hefði t. d. ekki verið varið í að stöðva mislingana 1882, og óefað

hefði það verið hægt, með hyggilegum sóttvörnum og samvinnu milli læknanna. Það er vant að skoða mislinga sem milda og meinlausa veiki, en það fer fjarri að svo sé, eins og sést af yfirlitinu hér að framan.

Hvað hið seinna atriði snertir, þá er auðvitað, að þekking alþýðu á meðferð ungbarna er betri, en hún var á 18. öld, þegar P. Thorsteinsson skrifaði bækling sinn, sem fyr er um getið; en samt er henni mjög ábótavant, og töluverður barnadauði hlýzt af vanþekkingu mæðranna.

Það er t. d. enn þá trú margra, að kúamjólkin sé alment hollari en móðurmjólkin, og ég hef þekt mæður, sem gefa kúamjólkina eintóma, af því þær halda að hún sé kraftmeiri.

Íslenzkir læknar hafa enn of lítið frætt alþýðu um þessa hluti, að undanteknum dr. Jónassen, sem hefur skrifað góða bók, »Barnfóstruna«, en sem er oflítið þekt af alþýðu.

STEINGRÍMUR MATTHÍASSON.

Heimildarrit:

Eimreiðin VI. ár, 3. hefti.
P. A. Schleisner: Island, undersögt fra et lægevidenskabeligt Standpunkt. Kbh. 1848.
P. Thorsteinsson: Dissertatio de perversa infantum nutritione in Islandia. Havniæ 1777.
Rit Lærdómslistafélagsins. Kbh. 1785.
Skýrslur um landshagi á Íslandi, 5. bindi, 1858—1870.
Stjórnartíðindi Íslands 1870—1900.
Denmark, its medical organisation, hygiene and demography. Kbh. 1891.
Schönberg, Dr. G. v.: Handbuch der politischen Oekonomie, Bd. I. Tübingen 1896.
Westergaard, H.: Die Lehre von der Mortalitet und Morbilitet. II. Ausgabe. Jena 1901.

# Sveitin mín

(fyrir 4 ósamkynja raddir).

*Andante.* B. ÞORSTEINSSON.

*mf*

1. Fjall - a - drotn - ing, móð - ir mín, mér svo kær og hjart - a-

*mf*

bund - in! sæll ég bý við brjóst - in þín, — bless - uð

aldn - a fóstr - a mín. Hér á and - inn óð - ul

sín öll, sem verða' á jörð - u fund - in. Fjall - a-

drotn - ing, móð - ir mín, mér svo kær og

mér svo kær og mér svo

hjart - a - bund - - - in!

kær og hjart - a - bund - - - in!

7.

Blessuð sértu, sveitin mín,
sumar, vetur, ár og daga.
Engið, fjöllin, áin þín,
— yndislega sveitin mín! —
heilla mig, og heim til sín
huga minn úr fjarlægð draga.
Blessuð sértu, sveitin mín,
sumar, vetur, ár og daga!

**Aths.** Þetta kvæði eftir Sigurð Jónsson á Helluvaði í Mývatnssveit er áður prentað í heild sinni í EIMR. VIII, 107—8.

# Íslands vísur

(fyrir 4 karlmannaraddir).

*Andantino.* B. ÞORSTEINSSON.

*f*

1. Ég vil elsk - a mitt land, ég vil auðg - a mitt land, ég vil

*f*

efl - a þess dáð, ég vil styrkj - a þess hag; ég vil

leita' að þess þörf, ég vil létt - a þess störf, ég vil

lát - a það sjá marg-an ham-ingj - u - dag.

4.

Ég vil frelsi míns lands,
ég vil farsæld míns lands,
ég vil frægð, þess og gnægð þess og auð þess og völd;
ég vil heiðursins krans
leggja að höfði hvers manns,
sem vill hefja það fram móti batnandi öld.

6.

Þetta er játningin mín,
kæra móðir, til þín,
ég get miklast af því, að ég sonur þinn er;
það er svipurinn þinn,
er í sál mér ég finn;
hann er samgróinn öllu því bezta hjá mér.

7.

Ég kem fram á þinn fund
þessa fagnaðarstund
eins og frjálsborinn sonur, sem elskar þig heitt,
og að fótum á þér
ég sem fórn mína ber
það, sem fegurst og bezt hefur lífið mér veitt.

**Aths.** Þetta kvæði eftir Guðm. Magnússon er tileinkað þingmönnum á alþingi 1901, og er prentað í heild sinni bæði í Fjallkonunni sama árið og í kvæðabók Guðmundar 1903.

# Nokkur kvæði.

## HREIÐRIÐ.

Drengurinn:

Nei, líttu' á, pabbi! hérna finn ég hreiður
Í holunni' undir mosavöxnum steini;
Ég fuglinn litla fljúga sá úr leyni,
Sko, fimm eru' eggin.

Faðirinn:

Þú mátt vera gleiður,
Svo naskur varstu núna að finna þetta.

Drengurinn:

Og nú skal ég víst eggin mömmu færa.

Faðirinn:

Nei hana, er á þau, hvergi' er vert að særa;
Hún haldi sínu; það eitt er hið rétta, —
Og göngum svo frá holuhreiðri lágu!

Drengurinn:

En helzt ég vildi samt í eggin kraka.

Faðirinn:

Nei, ekki það, og ekki á þeim taka,
Svo styggirðu' ekki sólskríkjuna smáu.
Það kærst er henni, við það eitt að una,
Sem alt er henni', en gerir oss ei ríka;
Og hún er söngfugl, — hygðu að því líka, —
Og hljóðsnjöll lofar guð og náttúruna.
Hún lá í friði' á litlum eggjum sínum,
En lafhrædd flaug, er þú komst að með hraða.
Við skulum hana skilja eftir glaða,
Því ske má það, ef fer að vonum mínum,
Að ungar þeir, sem ástríkt fjaður-vífið
Mun innan skamms úr hreiðri þessu leiða,
Þér heilsi' að sumri' í sólviðrinu heiða
Og syngi fyrir þig, sem gafst þeim lífið.

## KIRKJA VORSINS.

Hvert leiddir þú mig ljúfa þrá
Svo langt á árstíð kærri?
Sjá, vorsins kirkja hér er há
Með hvelfing öllum skærri.

Og þettað á nú við mig vel,
Það Vorið er, sem messar
Og hljóðri ræðu hrífur þel
Og helgar stundir þessar.

Hið helga ljós er heiðsól ein,
Um hana' er ljómar alla
Og logar fögur, hlý og hrein
Á háaltari fjalla.

Og hér er alt svo fult af frið
Og fult af helgum dómum,
Og gullna sólargeisla við
Ég guðspjöll les í blómum.

Hér elfan þreytir orgelslátt,
Svo óma klettagöngin.
Og fuglar láta úr allri átt
Svo inndælt hljóma sönginn.

Og gróðrarblær um grundir fer,
Sem gerir alt að hressa;
Þá finn ég vel, að Vorið er,
Í víðri kirkju' að blessa.

## FRIÐARBOGINN.

Tveir herir höfðu barist á sléttu flæmi fróns
Og fólkorusta staðið frá dagmálum til nóns.

Og ent var nú málmhríð og móðan reykjar blá
Á morðvengi dreyrgu sem þokuslæða lá.

Um sigurinn er alsagt, að hvorugur hann hlaut
Á heillar mílu svæði í blóði jörðin flaut.

Með skúrum gekk þann daginn og skein með köflum sól
Á skelfingar manndráp, en aðra stund sig fól.

Þá regnbogi hóf sig í himins skýja sal
Og hvelfdist í dýrð yfir þann hinn mikla val.

Og stóð nú svo lengi og stöðuglega þar,
Að starsýnt varð á sumum, hvað lengi það var.

Svo ljómandi stóð það, hið forna friðarteikn,
Yfir foldinni blóðgri af styrjar óra feikn,

Þá herma réð einhver: »Nú hvað mun þýða slíkt?
Mun himinn sjálfur spotta, hvað stríð á jörð er ríkt?«

Þeim er þjóðlegt kal
í þvísa landi
ódýrt úthlutað
sem aleinn fer.

Hlægir hug minn eitt
ı húmi hverju
er ég eign mína
yfir lít:
öll er óseld mín
óðalslenda
— Braga-bláskógar
og bjargastorð.

Veit ég Vonaskarð
vera í fjöllum
— Braga-bláfjöllum
beint í austri
— móti morgunsól —
margra rasta,
ótal einstiga
undra skarð.

Sízt er séð til fulls
að sonum mínum
verði vegleysa
Vonaskarð.
Enn er ónumið
í óbygðum.
Geta gullnámar
í grjóti dulist.

Margt í koti karls
kann að vera
það sem þjóðkóngi
er þeygi veitt.
Vinnur vorhugur
að vegabót.
Enn mun æskuþrá
ósérhlífin.

Enn mun æskuþrá
við árroða
breiða út brosandi
báðar hendur,
syngja sjafnaljóð
sólar fóstra:
ungum árdegi,
unz alt um þrýtur.

---

# Íslenzkur lögfræðingur vestan hafs.

Sá, er fyrstur allra Vestur-Íslendinga tók próf í lögum og flutti mál fyrir dómstólum þessa lands, var MAGNÚS BRYNJÓLFSSON. Hann er fæddur að Skeggjastöðum í Svartárdal í Húnaþingi, 28. dag maímánaðar 1866. Faðir hans er Brynjólfur Brynjólfsson, Magnússonar, bónda að Starrastöðum í Hegranesþingi, Magnússonar. Móðir Brynjólfs Magnússonar var Guðrún dóttir Stefáns bónda að Skatastöðum í Austurdal, og konu hans Sólborgar Bjarnadóttur frá Skjaldastöðum í Öxnadal. (Afkomendur þeirra hjóna, Stefáns og Sól-

borgar eru þeir síra Sigurður Stefánsson í Vigur á Ísafirði og Stefán Stefánsson kennari við gagnfræðaskólann á Akureyri).

Móðir Magnúsar lögmanns var **Þórunn** dóttir Ólafs bónda Bjarnarsonar að Sellandi í Blöndudal. Móðir Ólafs var Þórunn Helgadóttir, bónda í Þverárdal, og alsystir Árna Helgasonar að Fjalli í Sæmundarhlíð, föður Sigþrúðar móður Jóns Þorkelssonar fyrrum rektors í Reykjavík. En móðir Þórunnar (móður Magnúsar lögmanns) var Sigríður Henriksdóttir, systir Henriks föður Jóns (eldra) í Múla.



MAGNÚS BRYNJÓLFSSON.

Sumarið 1874 fluttu þau hjónin Brynjólfur og Þórunn með öll börn sín vestur um haf, (til Kanada), og dvöldu þau í Kinmount og Lindsay í Ontaríó-fylki veturinn 1874—1875. En vorið 1875 fluttu þau sig til Nýja-Skotlands *(Nova Scotia)*, og dvöldu þar þangað til sumarið 1881; þá tóku þau sig upp þaðan og fluttu vestur til Duluth í Minnesota og þaðan (eftir vetrardvöl) til Pembínahéraðs í Norður-Dakóta.

Á meðan Magnús Brynjólfsson var í Nýja-Skotlandi, gekk hann um hríð á skóla þar, og fékk þar góða undirstöðu til mentunar sinnar. Hann var snemma námfús og skilningsgóður, var sérlega fljótur að nema og gleymdi því trauðla, er hann einu sinni lærði. Báru þeir bræður (Magnús og Björn) að gáfum langt af öðrum íslenzkum ungmennum, sem gengu á skóla í Nýja-Skotlandi, og munu þó flest ungmenni, som þar voru, hafa verið vel í meðallagi gáfuð. — En þótt Magnús lærði mikið þann tíma, sem hann gekk á skólann, þá lærði hann tífalt meira, þegar hann tók til að lesa utan skóla; enda átti hann hauk í horni, þar sem faðir hans var, því hann er einhver sá gáfaðasti og bezt mentaði íslenzkur bóndi, sem sá, er þetta ritar, hefir nokkurn tíma kynst.

Árið 1887 byrjaði Magnús að lesa lög hjá lögfræðingi George H. Megquier í Pembína. Las Magnús svo kappsamlega, að hann tók próf í lögum tveim árum síðar; og 9. sept. 1889 voru honum veitt fullkomin réttindi sem málaflutnings-manni í Dakóta. Settist hann þá

að í Cavalier í N. Dakóta, þar sem hann dvelur enn; og er hann nú bæjarstjóri þar. — Fyrstu þrjú árin eftir að hann fór að gegna málfærslustörfum, var hann í félagi við Daníel J. Laxdal, sem byrjaði að stunda málfærslustörf veturinn 1890; en samkvæmt beggja vilja, og alveg þykkjulaust, hættu þeir þeim félagskap árið 1893. Síðan hefir Magnús ekki verið í félagi með öðrum lögmönnum.

Að stjórnarmálum fylgir hann flokki Demókrata. Og 1896 sótti hann undir merkjum þess flokks um lögsóknara-embættið (*States Attorney's* embættið) í Pembínahéraði, en bar þá lægra hlut með 70 atkvæða mun. Árið 1902 sótti hann á ný um sama embættið, undir merkjum sama flokks, og hlaut þá kosningu með frekum 200 atkvæðum fram yfir keppinaut sinn; voru þó Repúblíkanar þá um 670 atkvæðum sterkari í kjördæminu, en flokkur Magnúsar, enda var hann sá eini Demókrat, sem náði embætti í Pembínahéraði við þær kosningar. Sýnir þetta, hversu vinsæll Magnús er, og hversu mikið traust menn báru til hans, að fleiri hundruð manna úr andstæðingaflokki hans í stjórnarmálum skyldu greiða atkvæði með honum. Enda er Magnús sérlega vinsæll maður. — Og öllum kemur saman um, að hann hafi gegnt lögsóknara-embættinu með mesta dugnaði, síðan að hann tók við því.

Haustið 1898 kvæntist hann og gekk að eiga ungfrú Sigríði Magnúsdóttur, Halldórssonar, Sigurðssonar prests að Hálsi í Fnjóskadal. Hún er góð kona og gáfuð og hefir náð hárri mentun, og er hún í fremstu röð íslenzkra kvenna vestan hafs.

Magnús Brynjólfsson er vel meðalmaður á hæð, fallegur í vexti og karlmannlegur, og hinn prúðmannlegasti í framgöngu. Hann er fríður maður sýnum, höfðinglegur og bjartur yfirlitum, ennið mikið og augun djúp og gáfuleg.

Hann er allra manna bezt máli farinn, og röddin skír og sterk; stálminnugur er hann, og bráðskarpur og fljótur að sjá, hvað til bragðs á að taka; starfsþol hans er næstum dæmalaust, kappið mikið og kjarkurinn óbilandi. Er hann talinn með þeim allra ötulustu, beztu og hepnustu lögfræðingum í N. Dakóta. — Hann er sannur höfðingi í lund, svo að leitun mun vera á öðrum eins, og það með höfðinglyndri þjóð. Örlæti hans og gestrisni er við brugðið. Hann er sannur vinur vina sinna — er ekki eitt í dag og annað á morgun — og það má æfinlega reiða sig á loforð hans. Hann er í fremstu röð allra Vestur-Íslendinga, bæði sem gáfumaður og mannkostamaður. Og hann er og verður Íslendingum til sóma, hvar sem hann kemur fram meðal hérlendra manna. — Betri og djarfari dreng hefi ég aldrei þekt.

Hallson í N. Dakóta, 18. júlí, 1904.

J. MAGNÚS BJARNASON.

# Ritsjá.

ÁRSSKÝRSLA RÆKTUNARFÉLAGS NORÐURLANDS 1903. Akureyri 1904. Félag þetta hefir farið vel af stað og má mikils góðs af því vænta, enda hefir því verið vel tekið af mörgum, þar sem félagsmenn voru í árslok 1903 orðnir 665 og ýmsir höfðu gefið því stærri gjafir. Það á líka fyllilega skilið, að það sé stutt af alefli og hefði átt að fá ríflegri stuðning frá alþingi, en raun varð á.

Þessi skýrsla félagsins er ekki nein þur upptalning, eins og oft gerist með skýrslur, heldur hefir hún og inni að halda góðar ritgerðir, sem bæði eru örvandi og fræðandi. Er þar fyrst ágæt ritgerð um störf og verkefni félagsins eftir forseta þess amtmann Pál Briem og því næst fleiri smáritgerðir eftir aðalstofnanda félagsins skólastjóra Sigurð Sigurðsson. Eru þær um tilbúinn áburð, undirstöðuatriði jarðyrkjunnar, grasrækt, garðrækt, tilraunastöðvar, gróðursetning trjáa og runna o. fl. og er margt og mikið á þeim að græða. Alt, sem vér höfum séð frá hendi þessa efnilega manns, bendir á, að hann hafi hvorttveggja í einu: lifandi áhuga og glögt auga fyrir praktiskum aðferðum og hverju unt sé að koma í framkvæmd. Hver veit nema hann geti orðið okkur einskonar íslenzkur *Dalgas*, ef við kunnum rétt með að fara og látum hann og ræktunartilraunir hans njóta alls þess stuðnings, sem hann á skilið. *V. G.*

BÚNAÐARSKÓLINN Á HÓLUM Í HJALTADAL. Akureyri 1903.

Í skýrslu þessari er skýrt frá tilgangi skólans, kensluaðferð, kensluáhöldum, námsgreinum o. fl. Námstíminn er 2 vetur og kenslan nær eingöngu bókleg, en skólinn útvegar þeim piltum, sem þess óska, verklega kenslu í garðyrkju, grasfræsáning, plægingu, skógrækt, garðhleðslu, vörsluskurðagjörð, hallamælingu, framræslu, veitugjörð, meðferð áburðar og eftir atvikum skepnuhirðingu. Bóklegu námsgreinarnar eru 20 (auk leikfimi) og mun sá enginn blár geta kallast, sem orðinn er vel heima í þeim öllum. En lítt er það skiljanlegt að því marki verði náð á einum tveim vetrum. Kensluaðferðin virðist mjög praktisk og námsgreinarnar vel valdar. — Auk hins reglulega skóla er og á Hólum haldinn bændaskóli tvisvar á ári, hálfan mánuð í hvort sinn, og eru þar haldnir fyrirlestrar um ýms búnaðarfræði, sem að minsta kosti geta haft hvetjandi áhrif, þó þeir að vonum ekki veiti mikinn þekkingarforða. Skólinn leggur mesta áherzlu á að kenna með lifandi orði og sýningum mynda og er slíkt vel ráðið. *V. G.*

SIGURÐUR SIGURÐSSON: RJÓMABÚIN OG SMJÖRSÖLUHORFURNAR. Rvík 1904.

Í fyrirlestri þessum, sem höf. flutti á rjómabúafundi við Þjórsárbrú 29. jan. 1904, er skýrt frá vexti og viðgangi mjólkurbúa hér á landi og útflutningi af smjöri frá þeim, ennfremur um framleiðslu smjörs og sölu

í öðrum löndum og að síðustu um hvað gera þurfi til að auka smjörgerðina og bæta verkun þess. Fyrirlesturinn er bæði fróðlegur og hvetjandi. *V. G.*

ALDAMÓT. XIII. ár. Winnipeg 1903.

Af aðfengnum ritgerðum í þessum árg. Aldamóta er eiginlega aðeins ein frumsamin: »Hvað er í veði?« (stutt bindindisræða) eftir séra *Friðrik Hallgrímsson* og svo tvær þýðingar: «Dína Morris«, sögukafli eftir *George Eliot*, og »Þráðurinn að ofan« eftir danska skáldið *Jóhannes Jørgensen*. Alt annað er eftir ritstjórann sjálfan, séra *Fr. J. Bergmann:* «Kristsmynd úr íslenzkum steini« (kirkjuþingsfyrirlestur), »Tveir kirkjulegir fyrirmyndarmenn« (Norðmennirnir H. N. Hauge og Gisle Johnson), »Leggið rækt við trú yðar!« (Tjaldbúðarræða), »Skólastjórn með enskum þjóðum«, »Vestur-íslenzk menning«, »Austur- og Vestur-Íslendingar« og »Undir linditrjánum« (ritdómar um nýútkomin íslenzk rit).

Af þessum ritgerðum viljum vér sérstaklega benda löndum vorum heima á Íslandi á skólastjórnarritgerðina, sem er mjög tímabær um þessar mundir og gefur margar bendingar, sem skólamenn vorir hefðu gott af að athuga og taka til greina. Þá viljum vér og vekja athygli á athugasemdinni um mannaskiftin (í ritgerðinni um Austur- og Vestur-Íslendinga), sem stöðugt eiga sér stað með ensku þjóðunum og reynst hafa svo affarasæl. »Þetta sama,« segir höf., »ætti að geta átt sér stað með Austur- og Vestur-Íslendingum. Þeir ættu, með tímanum að minsta kosti, að geta skifst á um menn í helztu stöður til ómetanlegs gagns fyrir báða. Með því móti mundi þjóðerni Vestur-Íslendinga styrkjast og eflast, og þeim betur takast að vinna sér andlega auðlegð úr þjóðararfi sínum. Og á þann hátt mundi menning ensku þjóðanna og starfsþor flytjast til fósturjarðar vorrar, en umfram alt vestrænn hugsunarháttur og mannfélagsbragur festa þar rætur.« Um þetta erum vér fyllilega sammála. Slík mannaskifti, á líkan hátt og á sér stað með ensku þjóðunum, gætu orðið stórgróði fyrir Ísland og sjálfsagt nokkur gróði fyrir Vestur-Íslendinga líka. Gæti t. d. sá rekspölur komist á, að ungir hæfileikamenn flyttu til Ameríku og dveldu þar í nokkur ár í mismunandi stöðum, en flyttu svo aftur til Íslands í viðlíka stöður þar, þá er enginn vafi á, að útflutningsstraumurinn gæti orðið að frjófgandi blessunarlind fyrir land vort. *V. G.*

NÝ DAGSBRÚN. I, 1. *Jóhann P. Sólmundsson* hefir búið undir prentun. Gimli 1904.

Rit þetta, sem er ársrit »Hins únítariska kirkjufélags Vestur-Íslendinga«, inniheldur auk nokkurra inngangsorða tíðindi frá tveimur kirkjuþingum félagsins, ritgerð um tilgang þess eftir séra *Jóhann P. Sólmundsson* og tvo fyrirlestra frá 1 kirkjaþinginu: »Hvert stefnir« eftir *Einar Ólafsson* og »Norður og niður«, eftir séra *Magnús Skaftason*. Í því eru prýðisvel gerðar myndir af tveimur framliðnum únítaforkólfum, Birni Péturssyni og Þorvaldi Þorvaldssyni.

Ritið er allvandað bæði að efni og frágangi. Einkum er fyrirlestur séra Magnúsar tilþrifamikill, þrunginn af mælsku og eldlegum

áhuga, en nokkuð svæsinn á stundum í garð allúterskra manna. Málið á ritinu er vandað og prófarkalesturinn óvanalega góður, letrið laglegt, en prentun nokkuð áfátt (letrið sumstaðar of dauft, enn annarstaðar of feitt og klest; prentsvertan líklega miður góð). Rit þetta kemur út í heftum, 18—20 arkir á ári, og kostar árg. 1 dollar. *V. G.*

HEIMIR. I, 1—3. Útgefendur: Nokkrir Íslendingar í Vesturheimi. Winnipeg 1904.

Ritstjóri þessa rits (sem á að koma út í arkarheftum 18 sinnum á ári og kostar 1 dollar árg,) er únítarapresturinn séra *Rögnvaldur Pétursson*. Er sá tilgangurinn »að taka trúmál til íhugunar í ritinu, rannsaka þau eftir því sem kringumstæðurnar leyfa, og leitast fremur við að útskýra þau, en fella á þau nokkurn dóm, en láta menn heldur dæma þar um fyrir sjálfa sig.« Auk inngangsorða er innihaldið »Upprisan« eftir *Leó Tolstoy*, »Kirkjuþing« og »Háskólalíf á miðöldunum« (líklega eftir ritstjórann), »Ótrú« eftir *Camille Flammarion*, »Hverju trúir þú?« eftir *B. Lyngholt*, »Ríki blaðanna« eftir *Max Nordau*, ennfremur nokkrar smágreinar og kvæði (2 af þeim eftir *Kristin Stefánsson*).

Frágangurinn á ritinu er góður og efnið yfirleitt vandað og fræðandi, en ekki sérlega tilþrifamikið. Virðist meir kostað kapps um að ræða málin með hógværð og stillingu, en að höggva og leggja með berserksgangi. *V. G.*

— — —

# Íslenzk hringsjá.

HINN GLATAÐI SONUR (»The Prodigal Son«) heitir skáldsaga ein nýútkomin (London 1904) eftir hið þjóðkunna enska skáld *Hall Cain*, sem tvisvar hefir ferðast heima á Íslandi, síðast árið 1903. Sagan fer mestmegnis fram á Íslandi (í Reykjavík), en þó að nokkru leyti í útlöndum, einkum í Lundúnum.

Aðalpersónurnar eru Stephán Magnússon landhöfðingi og synir hans tveir, Magnús og Óskar, annars vegar, og faktor Nielsen (kaupmaður, þó hann stöðugt sé kallaður »faktor«, af því hann var það fyrst) og dætur hans tvær, Þóra og Helga. Kona Nielsens dvelur í Kaupmannahöfn og yngri dóttirin Helga hjá henni. Óskar, yngri sonur landshöfðingja er sendur til Oxford til að stunda söngfræði, en Magnús er heima og verður verzlunarþjónn hjá Nielsen, sem líkar vel við hann. Ráða feðurnir svo með sér að gifta þau saman Magnús og Þóru, enda elskar Magnús hana út af lífinu, og hún gefur samþykki sitt og lofast honum, þó hún reyndar hafi enga ást á honum. En þá kemur Óskar heim frá Oxford, fjörugur og léttlyndur, og fá þau ákafa ást hvort á öðru hann og Þóra. Er Magnús þá svo eðallyndur að hann gefir bróður sínum eftir konuefnið, þó hann unni henni hugástum, og styður hann til að fá hana, þó hann verði að brjóta bág við alla vini og vandamenn og sé rekinn í einskonar útlegð upp í sveit á feðraleifð landshöfðingjafrúarinnar, Þingvelli. En svo kemur Helga heim frá Khöfn, og fá þau Óskar og hún ákafa ást hvort á öðru, en ást hans til Þóru er lokið. Samt álítur hann skyldu

sína að giftast henni og gerir það. Fara þau svo brúðkaupsferð út í lönd, til Englands, Frakklands og Ítalíu og Helga með þeim. Verður ferðin lítt til ánægju fyrir Þóru, því hún má jafnan hírast heima á hótellum meðan Óskar og Helga eru úti að skemta sér. Og þó farareyririnn væri ekki af skornum skamti, hrekkur hann ekki til í spilahúsinu í Monte Carlo, því þar tapa þau ógrynni fjár, og leiðist því Óskar til að gefa út ávísun upp á 100,000 kr. undir nafni föður síns, landshöfðingjans, og vottaða með nafni tengdaföður síns og falsar bæði nöfnin. Eftir heimkomuna eru þau Óskar og Helga jafnan saman, en samlyndið milli hjónanna stirðnar meira og meira og leiðir öll meðferðin á Þóru hana til dauða, eftir að hún hefir alið dóttur, sem er skírð Elín. Í sömu svifum kemur ávísunin falska fram og verður landshöfðingja ekki um sel, en kannast þó við undirskriftina til að bjarga syni sínum frá tugthúsinu, en rekur hann af landi burt samstundis og lætur hann lofa að hann skuli aldrei koma aftur til Íslands. Verður h nn að rýja sig inn að skyrtunni til að borga skuldina og veðsetja bankanum Þingvelli fyrir miklu meira en þeir eru virði. En Magnús sonur hans býr þar áfram og streytist við að borga vextina. Smali hans og hestadrengur heitir *Jón Vídalín*. Helga fer aftur til Khafnar, en Óskar til Lundúna. Lendir hann þar í mesta volæði og niðurlægingu, unz Helga kemur þangað og hefur hann upp úr henni með aðstoð Niels Finsens söngfræðings, sem er sonur bæjarfógeta Finsens í Reykjavík, er síðar verður ráðherra Íslands, er stjórnarbreytingin kemst á, og landshöfðingi deyr af gremju yfir henni, þegar kóngurinn hefir ekki viljað verða við bón hans um að neita um staðfestingu sína. Niels Finsen hefir kynst Helgu í Rvík og séð, að hún hafði mikla hæfileika til að verða góð söngkona. Hefir því kallað hana til Lundúna og kostar kenslu hennar. Þau útvega svo Óskar í sameiningu góða söngstjórastöðu fyrst í Lundúnum og síðar í Frakklandi og fara sjálf með honum þangað. Honum græðist fé, en lendir aftur í spilahúsinu í Monte Carlo fyrir fortölur Helgu, sem altaf hefir mikið vald yfir honum. Tapar hann svo hverjum eyri og gerir sig að lokum sekan í falsspili og sleppur því aðeins lifandi burt, að svo er látið heita, að hann hafi sjálfur ráðið sér bana, og berst sú fregn um alt og einnig heim til Íslands. En nú skilur með honum og Helgu, fer hann til Lundúna og dvelur þar í kyrþey, en semur hvert söngverkið á fætur öðru og verður heimsfrægt tónskáld og rakar fé saman. Kallar hann sig nú Kristján Kristjánsson og er það nafn á allra vörum, en sjálft tónskáldið (manninn) þekkir enginn, því hann lætur hvergi sjá sig. Snýr hann nú heim til Íslands eftir 16 ára útivist og er þar tekið með mestu viðhöfn sem hinu heimsfræga tónskáldi Kr. Kr., en enginn þekkir hann. Er þá faðir hans dáinn fyrir löngu, en móðir hans Anna og dóttir hans Elín hjá Magnúsi bróður hans á Þingvöllum. En svo er á statt fyrir honum, að hann hefir ekki getað staðið í skilum með hina háu vexti af bankaskuldinni gömlu og á nú næsta dag að selja Þingvelli við opinbert uppboð. Óskar tekur þá 200,000 kr. út í bankanum (samkvæmt ávísun frá banka hans í Lundúnum) og leggur á stað til Þingvalla í stórhríð og kemst þangað við illan leik. En hann þorir ekki að láta vita, hver hann sé, og er hann hefir talað við þau mæðgin og dóttur sína, sér hann að hjálp sín muni ekki þegin, ef hann segi satt frá öllu. Afhendir hann þá Elínu dóttur sinni seðlabók sína um kveldið, áður en hann háttar og biður hana að afhenda sýslumanni næsta morgun áður en uppboðið byrji. En í hana hefir hann lagt seðil, þar sem á er ritað að alt innihaldið (200,000 kr.) sé eign Elínar. Laumast hann svo burt um nóttina og ætlar til Eyrarbakka og komast þaðan með skipi til Noregs, en verður úti á fjöllunum uppi við Hengilinn.

Þetta eru aðeins aðaldrættirnir í bókinni, sem er alls 426 bls., en þá vantar að skýra fra hinum snildarlegu og margbreyttu lýsingum lyndiseinkunna í henni, eðallyndi og óeigingirni Magnúsar, léttlyndi og breyskleika Óskars, eigingirni og töfraafli Helgu, blíðlyndi Þóru, móðurtrygð Önnu landshöfðingjafrúar, sérplægni Finsens ráðherra o. s. frv. Margt ber þar og fleira á góma, þingkosningar, stjórnarbaráttu, breyting á verzlun og fiskiveiðum o. s. frv. Bókin er hin skemtilegasta og ágætar lýsingar á íslenzkri náttúrufegurð í henni og mörgu úr þjóðlífi voru og þjóðháttum og er það furðu rétt nærri alt saman. Verður hún eflaust til þess að auka að mun eftirtekt manna á Íslandi og laða útlendinga til að ferðast þangað. Því enginn vafi er á því, að bókin verður mikið lesin bæði á Englandi og annarstaðar, þar sem hún kvað hafa komið út á 7 tungum í einu og af fyrstu útgáfunni ensku voru prentuð 100,000 eintök. En óviðkunnanlegt mun mörgum þykja, hve mjög höf. notar nöfn núlifandi manna og nýafstaðna viðburði. *V. G.*

UM SURT JÖTUN, sem samkvæmt frásögn Eddusagnanna »slyngur eldi yfir jörðina í enda veraldar og brennir allan heim«, hefir Miss *B. S. Phillpotts* (frá Cambridge) skrifað merkilega ritgerð í »Ark. f. nord. filologi (1904), þar sem hún heldur því fram, að átt sé við, að heimurinn muni farast af eldgosum og jarðskjálftum, og færir hún svo góð rök fyrir máli sínu, að álíta má fullar sannanir. En af því dregur hún aftur þá laukréttu ályktun, að Völuspá hljóti að vera ort á Íslandi, því engir nema Íslendingar hafi haft þá þekkingu á eldgosum og jarðskjálftum, sem liggi til grundvallar fyrir hugmyndinni um Surtarloga, og hefir hún vafalaust rétt fyrir sér í því. *V. G.*

UM RÍGSÞULU (»Die Rígsþula«) hefir prófessor *Karl Lehmann* í Rostock skrifað mjög lærða ritgerð í »Festschrift für Se. Excellenz Herrn Staatsrat Julius Amsberg« (1904) og er þar þýðing á öllu kvæðinu ásamt mýmörgum skýringum. Álítur hann mestar líkur til að kvæðið sé ort af Íslendingi um lok 10. eða í byrjum 11. aldar, þó full vissa sé ekki fyrir því, og það geti því verið ort í Noregi. *V. G.*

UM ÍSLENZKAR FÓÐUR- OG BEITIJURTIR, ritgerð Stefáns kennara Stefánssonar (í Búnaðarritinu XVI) í sambandi við hina sænsku ritgerð hans og Söderbaums um sama efni (í »Meddelanden från Kongl. Landtbruks-Akademiens Experimentalfält«, Nr. 72, Stokkh. 1902) hefir fröken *M. Lehmann-Filhés* skrifað í þýzka tímaritið »Globus« og sýnir þar aðalefni hennar í fáum dráttum. *V. G.*

FISKIRANNSÓKNIR VIÐ ÍSLAND og Færeyjar sumarið 1903 (»Fiskerundersøgelser ved Island og Færøerne i Sommeren 1903«) heitir nýútkomin bók eftir dr. JOHS. SCHMIDT, sem síðastliðin tvö ár hefir staðið fyrir fiskiveiðarannsóknum Dana við Ísland og Færeyjar á gufuskipinu »Thor« á kostnað ríkissjóðsins. Og það er bók, sem vert er að kynnast, því á henni er stórmikið að græða. Henni er skift í 6 kapítula, og er hinn 1. lýsing á fiskirannsóknaskipinu og útbúnaði þess, 2. um sjávardýpi, botn og lagarfræði (hafstrauma, hita og kulda o. s. frv.), 3. um fiskiveiðatilraunir, 4. um fljótandi gotu eða fiskiegg og ungseiði, 5. um lifnaðarhætti þorsksins, 6. yfirlit yfir fiskiveiðarnar við Færeyjar og Ísland.

Af rannsóknum þessum má margt og mikið læra, sem hefir mikla praktiska þýðingu fyrir fiskiveiðar vorar. Þannig má af þeim sjá, að gottími þorsksins er á vorin og að hann hrygnir eingöngu við suður- og vesturströnd landsins, þar sem sjórinn er heitari og grunnsævi. Síðar berast hrognseiðin með hafstraumum fram

með Vesturlandinu og norður fyrir Horn og fer að brydda á þeim að mun fyrir Norðurlandi í júlímánuði, en til Austurlandsins komast þau ekki fyr en í september eða síðar og koma þá ætíð norðan um land, en ekki frá suðurströndinni til Austurlandsins. Aftur er jafnan mikið af veturgömlum þorskseiðum og eldri bæði við Austur- og Norðurlandið, sem haga þó misjafnlega göngum sínum þar, t. d. frá grunnsævi út á djúpið o. s. frv. Hér við bætast svo göngur fullorðna þorsksins, sem eru margvíslegar; en mest kveður þó að göngum hans á vorin á grunnmiðin úti fyrir suður- og suðvesturströndinni, þar sem ótölulegur grúi af honum safnast saman til að hrygna. Allar þessar fiskigöngur má kalla æxlunargöngur einu nafni. Þegar hrygningunni er lokið fer fullorðni þorskurinn aftur á flakk og hverfur nú að mestu af grunnmiðunum við Suður- og Suðvesturlandið. Leggur þá nokkuð af honum frá landi út á djúpið, en meginþorri hans virðist leita norður á bóginn, til Norðvestur-, Norður- og Austurlandsins, þar sem sjórinn er kaldari og nóg er af fæðu handa honum á sumrin (t. d. loðna, sandsíli, síld o. fl.). Þessar göngur má kalla framfærslugöngur, þar sem þær eingöngu virðast stefna á staði, þar sem nóg er af fæðu, en þar sem hrygning getur eigi átt sér stað En auk þessa eru og aðrar göngur, hin svonefndu fiskihlaup, er fiskurinn færir sig ýmist fjær eða nær ströndinni, af grunnmiðum út á djúpið eða úr djúpi og á grunnmið o. s. frv., og er enn eigi hægt að skýra, hvernig á þeim stendur.

Þetta, sem hér hefir verið sagt, er aðeins til að gefa dálitla hugmynd um, hve mikið praktiskt gildi þessar rannsóknir hafa; því auðsætt er, að ef menn þekkja lifnaðarhætti og göngur fiskanna, þá geta menn með nokkurnveginn vissu vitað, hvar þeirra er að leita á hverjum tíma árs og hagað veiðum sínum eftir því. En annars verðum vér að vísa mönnum í bókina sjálfa, öllum þeim er dönsku skilja; en helzt ætti að þýða bókina á íslenzku eða gera útdrátt úr henni, svo allir sjómenn ættu kost á að kynnast efni hennar. — Bókinni fylgja 10 uppdrættir, sem sýna bæði dýpi, hrygningarstöðvar, fiskimið og margt fleira umhverfis landið, og er prýðilega frá öllu gengið. Einn af þessum uppdráttum er eftir fiskifræðing vorn Bjarna Sæmundsson og lýkur höf. bókarinnar hinu mesta lofsorði á rannsóknir hans og starfsemi alla. Það á hann líka eflaust skilið, en dr. Schmidt á sjálfur líka mikið lof skilið af vorri hálfu fyrir rannsóknir sínar og alla framgöngu og stjórn Dana þakkir fyrir fjárframlagið til þeirra. *V. G.*

UM HRÓLF KRAKA OG SKJÖLDUNGA HINA FYRRI (»Danmarks heltedigtning, første del: Rolf krake og den ældre Skjoldungrække«, Kbh. 1903) hefur dr. Axel Olrik nýlega ritað mikla bók (352 bls. í 8 bl. br.). Ber hann saman með mestu nákvæmni frásögurnar í heild og hver einstök atriði í þeim eins og frá er sagt í fornenskum kvæðum, Vídsíði og Bjóúlfi, Bjarkamálum hinum fornu (»Húskarlahvöt«) og hinni latn. þýðingu Saxa fróða af þeim, frásögnum hans og fornkvæðum, sögu Sveins Ákasonar og kronikunni um konungana í Hleiðru, Skjöldungasögu, Hrólfs sögu kraka, Bjarkarímum o. fl. Við þennan samanburð, sem gerður er með framúrskarandi skarpskygni og víðtækri þekkingu, kemur hin upprunalega meining málsins og mergurinn orðanna í ljós. Hver þáttur, hvert einstakt atriði er vegið á metaskálum hugsunarfræði og dómgreindar, handleikið og rætt á ýmsar lundir, unz gullbrot sögu sannra viðburða skína gegnum skriftir skálda og sót sögukarla. Þá kemur það í ljós, og er stutt yfir sögu farið, að um 450—550 (á þjóðflutingatímabilinu) urðu með Dönum, einkum innan hirðar, þeir viðburðir, er frásögurnar hafa myndast um. Smáríki Dana eru þá orðin sameinuð í eina ríkisheild og Hleiðrargarður á Sjálandi aðsetur konunganna; söfnuðust þar að þeim

hetjur og heljarmenni, er kölluðust Skjöldungar (þ. e. skjaldberendur). Hálfdan þekkjum vér þessara konunga elztan. Hann átti þrjá sonu: Hróar, Helga og Þorgeir, og dóttur, er var gift Ála konungi í Svíþjóð. Hróarr tók við ríkjum eftir föður sinn. Hans son var Hrærekur hnöggvanbaugi og öðru nafni slöngvanbaugi. Sonur Helga var Hrólfur kraki: hann veitti árás Hræreki frænda sínum, drap hann og skifti baugum hans með mönnum sínum. Gerðist nú Hrólfur kraki einvaldur konungur yfir Dönum, en þeir áttu þá í stöðugum illdeilum við nábúa sína Haðbarða. Hét konungur þeirra Ingjaldur og feldi Bjarki, einn af köppum Hrólfs konungs, son hans Agnar sterka, en hlaut að launum systur Hrólfs. Áli konungur var drepinn af Aðilsi bróðursyni sínum, en Hrólfur kraki hélt til hefnda til Uppsala. En er veldi Hrólfs stóð með mestum blóma, sótti Hjörvarður frændi hans, sonur Hjörgeirs, að honum með óvígan her. Hrólfur kraki féll og allir kappar hans. Hleiðrargarður var brendur til kaldra kola. Vart mun þó Hjörvarður hafa lengi ríkjum ráðið, né heldur Hleiðrargarður úr rústum risið sem aðsetur Danakonunga, en fimbulmyrkur grúfir sig nú aftur yfir sögu þeirra.

Höf. hefur ort upp aftur Bjarkamál hin fornu á nýdönsku (35 vísur) úr þýðingu Saxa fróða; hún er með mörgum innskotum og málalengingum, sem höf. auðvitað forðast að taka með i kvæði sitt. En þótt þessi tilraun til að framleiða Bjarkamál að nýju hafi hepnast vel að sumu leyti, finst mér hún bæta lítið úr söknuði fornkvæðisins; enda öllu óviðfeldnara að lesa Bjarkamál í þessari mynd en þýðingu Saxa.

Helzti langt mál er hér um kvörnina Grotta og því um líkar þjóðsögur. Harla ólíklegt er það, að í hinni fornu þjóðsögu, sem líklega hefur legið til grundvallar fyrir Grottasöng, eða í því kvæði sjálfu, sé átt við vatnsmylnu með Grotta og ambáttirnar séu úr af fjöllum ofan. Jafnvel þótt sá, er kvæðið orti, kunni að hafa þekt vatnsmylnu, er það ekki sennilegt, að hann hafi hugsað sér þær vera til á dögum Friðfróða né í landi hans, og því síður er fyrirrennurum hans það að ætla.

Margt hefur verið rætt og ritað um Hleiður og hafa vísindamennirnir ekki viljað fallast á að þar hafi verið aðsetur Danakonunga í fornöld. Höf. tilfærir skoðanir Sveins Ákasonar, Henry Petersens o. fl., sem tala um Hleiðrar (Lejreby) svo sem aðsetur Danakonunga, og það lítur enda út fyrir, að höf. sjálfur blandi saman Hleiðrum og aðseturstað Hrólfs kraka, er hann sjálfur þó álítur að verið hafi »Lejre« (Hleiður eða Hleiðrar?). Það er þó svo sem sjálfsagt, að Hleiður eða Hleiðrargarður, aðsetur Skjöldungakonunga, hefur verið þar sem nú er Hleiðrarborg (Ledreborg) og ekki í þorpinu Hleiðrum (Lejreby). Myndin af Lejre á bls. 191 (tekin úr *Mon. Dan.*), sem annars er mjög röng og ónákvæm, er af Hleiðrargarði (nú Ledreborg) og haugunum umhverfis þar, en ekki af Hleiðrum (Lejreby), »byen« — »blandt de ringeste landsbyer«.[1])

Þótt bókin sé rituð af mikilli snild, eins og annað frá þessa höfundar hendi, er auðvitað margt í henni, sem ræða má fram og aftur og mörg skoðun fram sett, er hægt er að fetta fingur út í. Eigi að síður er bókin mjög mikils virði fyrir konungasögu Dana og bókmentasögu Norðurlandabúa, að því er snertir þá viðburði og þau rit, sem hér koma til greina, og hún er því einkar fróðleg og skemtileg, ekki aðeins fyrir sögufræðinga, heldur alla þá, er gaman hafa af fornsögum vorum og fornu bókmentum, og þeir eru margir, ekki sízt meðal Íslendinga. *M. Þ.*

[1] Kvk.-orðið Hleiður, flt. Hleiðrar, er líkl. af sömu rót og hvk.-orðið hlið og merkir víst tjald, laufskála, kofa; sbr. gotnesku orðin hleiþra (st. kvk. o.) og (ufar-)hleiþrjan (v so.), tjalda (yfir).

# Hið sameinaða eimskipafélag.

## Áætlun um strandferðir á Íslandi 1905.

### *I. Vestur um land:*

| kálholt | 1 | | 2 | | 3 | | 4 | | 5 | | 6 | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | A | B | A | B | A | B | A | B | A | B | A | B |
| | apr. | maí | maí | júní | júní | júlí | júlí | ág. | ág. | sept. | sept. | nóv. |
| **eykjavík..** | 15 | .. | 13 | .. | 10 | .. | 23 | .. | 25 | .. | 26 | .. |
| kjavík.... | .. | 10 | .. | 5 | .. | 16 | .. | 21 | .. | 20 | .. | 1 |
| ranesi... | .. | .. | .. | .. | 10 | 14 | 23 | 20 | 25 | 18 | .. | .. |
| fnarfirði.. | .. | .. | 13 | 3 | .. | .. | 23 | .. | .. | 18 | .. | .. |
| ðum..... | 15 | .. | 13 | .. | 10 | 13 | .. | .. | .. | 17 | 26 | .. |
| ndi...... | 15 | 8 | .. | .. | .. | .. | .. | .. | 25 | 17 | .. | .. |
| | | | | | | | | | | | | okt. |
| afsvík.... | 15 | 8 | 14 | 3 | 10 | 13 | 24 | 20 | 26 | 17 | 27 | 30 |
| undarfirði. | .. | .. | .. | .. | 11 | 13 | 24 | 20 | .. | .. | .. | .. |
| kkishólmi | 16 | 8 | 14 | 3 | 11 | 12 | 24 | 19 | 26 | 17 | 27 | 30 |
| ammsfirði | .. | .. | 15 | .. | 12 | 12 | 25 | 19 | 27 | .. | .. | .. |
| arðstöð... | .. | .. | .. | .. | 12 | 11 | 25 | 18 | .. | .. | .. | .. |
| tey..... | 16 | 8 | 15 | 2 | 12 | 11 | 25 | 18 | 27 | 16 | 27 | 28 |
| eiðavík.. | .. | .. | .. | .. | 13 | 10 | .. | 17 | 27 | .. | .. | .. |
| treksfirði. | 17 | 7 | 16 | 2 | 13 | 10 | 26 | 17 | 28 | 16 | 28 | 28 |
| lknafirði.. | 17 | .. | .. | .. | 13 | 10 | 26 | 16 | .. | 15 | .. | .. |
| ldudal.... | 18 | 7 | 16 | 2 | 14 | 9 | 26 | 16 | 28 | 15 | 29 | 27 |
| rafirði... | 18 | 6 | 17 | 1 | 14 | 9 | 27 | 15 | 29 | 14 | 29 | 26 |
| undarfirði | 18 | 6 | 17 | 1 | 14 | 9 | 27 | 15 | 29 | 14 | 30 | 26 |
| gandafirði | .. | .. | .. | .. | 14 | 9 | 27 | 15 | .. | .. | .. | .. |
| lungavík.. | 18 | .. | .. | 1 | 14 | .. | .. | 15 | .. | .. | .. | .. |
| | | | | | | | | | | | okt. | |
| afirði..... | 20 | 6 | 18 | 1 | 16 | 9 | 29 | 15 | 30 | 14 | 2 | 26 |
| | | | | maí | | | | | | | | |
| alvík.... | .. | .. | 18 | 31 | 16 | 7 | 29 | 13 | .. | .. | .. | .. |
| ófn...... | .. | .. | .. | .. | .. | .. | .. | .. | 30 | 13 | .. | .. |
| orðurfirði. | .. | .. | 18 | .. | .. | .. | 29 | 12 | .. | .. | 2 | 24 |
| eykjarfirði. | 20 | 4 | .. | .. | 16 | 6 | .. | .. | 30 | 12 | .. | .. |
| eingrímsfirði | 21 | 4 | 19 | 30 | 16 | 6 | 30 | 12 | 31 | 12 | 3 | 23 |
| trufirði... | 21 | 4 | .. | .. | 17 | 6 | 30 | 12 | 31 | .. | .. | .. |
| | | | | | | | ág. | | sept. | | | |
| orðeyri... | 23 | 4 | 21 | 30 | 19 | 6 | 1 | 12 | 1 | 12 | 5 | 21 |
| vammstanga | 23 | 2 | 21 | 28 | 19 | 4 | 1 | 10 | 1 | 10 | 5 | 18 |
| önduós... | 24 | 2 | 21 | 28 | 19 | 3 | 1 | 10 | 1 | 10 | 5 | 17 |
| kagaströnd. | 24 | 1 | 21 | 27 | 19 | 3 | 1 | 10 | 1 | 10 | 5 | 15 |
| álfshamarsv. | .. | .. | .. | .. | 19 | 3 | .. | .. | 1 | 10 | .. | .. |
| uðárkrók. | 25 | 1 | 22 | 27 | 20 | 2 | 2 | 9 | 2 | 9 | 6 | 14 |
| olkuós.... | .. | .. | .. | .. | 20 | 2 | 2 | 9 | .. | .. | .. | .. |
| ofsós..... | 25 | 1 | 22 | 27 | 20 | 2 | 2 | 9 | 2 | 9 | .. | .. |
| | | apr. | | | | | | | | | | |
| aganesvík. | 25 | 30 | .. | 27 | .. | 2 | 2 | .. | 2 | 9 | .. | .. |
| glufirði... | 25 | 30 | 22 | 26 | 20 | 1 | 3 | 8 | 2 | 9 | 6 | 14 |
| lafsfirði... | .. | .. | 22 | 26 | 21 | 1 | .. | .. | 2 | 8 | .. | .. |
| alvík..... | 26 | 30 | .. | .. | 21 | 1 | 3 | 8 | 2 | 8 | 6 | 13 |
| risey..... | .. | .. | 23 | 26 | .. | .. | 3 | 8 | 3 | 8 | .. | .. |
| jalteyri.... | 26 | 30 | 23 | 26 | 21 | 1 | 3 | 8 | 3 | 8 | 6 | 13 |
| ureyri..... | 27 | .. | 23 | .. | 22 | .. | 5 | .. | 4 | .. | 8 | .. |
| **kureyri...** | .. | 30 | .. | 26 | .. | 1 | .. | 8 | .. | 8 | .. | 13 |

THUGASEMD um **strandferðirnar.** A **Unaós, Hornafjörð, Vík, Stokkseyri, Sand, Breiðavík** **rímsey** geta skipin aðeins komið, þegar bezt viðrar. — Frá **Reykjavík** og **Akureyri** fara strand- jafnan kl. 9 árdegis. Á öðrum stöðum er sá dagur tiltekinn í áætluninni, er skipin megi fara ta lagi, en félagið ber enga ábyrgð á, þótt þau kunni að tefjast svo, að síðar verði farið. Við- n á millistöðvunum verður svo stutt, sem unt er.

# *Frá Kaupmannahöfn til Íslands*

| | 1. | 2. | 3. | 4. | 5. | 6. | 7. | 8. | 9. | 10. | 11. | 12. | 13. | 14. | 15. | 16. | 17. | 18. | 19. | 20. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | Laura | Vesta | Ceres | Laura | Laura | Vesta | Ceres | Laura | Vesta | Ceres | Laura | Vesta | Ceres | Laura | Vesta | Ceres | Laura | Vesta | Laura | Vesta |
| **frá Kaupmhöfn** | 13 jan. | 24 febr. | 26 febr. | 4 marz | 8 apr. | 15 apr. | 28 apr. | 27 maí | 6 júní | 17 júní | 4 júlí | 25 júlí | 30 júlí | 15 ág. | 10 sept. | 19 sept. | 29 sept. | 15 okt. | 14 nóv. | 28 nóv. |
| Leith | 17 — | 28 — | 2 marz | 8 — | 12 — | 19 — | 2 maí | 31 — | 10 — | 21 — | 8 — | 29 — | 3 ág. | 19 — | 14 — | 23 — | 3 okt. | 19 — | 18 — | 2 des. |
| Thorshavn* | 19 — | ...... | 4 — | ...... | ...... | 21 — | 4 — | ...... | 12 — | 23 — | 10 — | ...... | 5 — | ...... | ...... | ...... | 5 — | ...... | 20 — | ...... |
| Klaksvig | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | 22 — | ...... | ...... | 13 — | ...... | ...... | ...... | † aths. | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... |
| Berufirði | ...... | ...... | 6 — | ...... | ...... | 23 — | ...... | ...... | 14 — | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... |
| Fáskrúðsfirði | ...... | ...... | 7 — | ...... | ...... | 24 — | ...... | ...... | 15 — | ...... | ...... | 1 ág. | ...... | ...... | 17 sept. | ...... | ...... | 23 okt. | ...... | 7 des. |
| Eskifirði | ...... | ...... | 7 — | ...... | ...... | 24 — | ...... | ...... | 15 — | ...... | ...... | 2 — | 15 ág. | ...... | 18 — | ...... | ...... | 24 — | ...... | ...... |
| Norðfirði | ...... | ...... | 8 — | ...... | ...... | 24 — | ...... | ...... | 15 — | ...... | ...... | 2 — | ...... | ...... | 18 — | ...... | ...... | 24 — | ...... | ...... |
| Seyðisfirði | ...... | 4 marz | 9 — | ...... | ...... | 25 — | ...... | ...... | 17 — | ...... | ...... | 3 — | 16 ág. | ...... | 19 — | 28 sept. | ...... | 25 — | ...... | 8 des. |
| Vopnafirði | ...... | 5 — | ...... | ...... | ...... | 25 — | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | 3 — | 16 — | ...... | ...... | ...... | ...... | 25 — | ...... | ...... |
| Húsavík | ...... | 6 — | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | 18 júní | ...... | ...... | ...... | 17 — | ...... | ...... | ...... | ...... | 26 — | ...... | ...... |
| Akureyri | ...... | 9 — | ...... | ...... | ...... | 28 apr. | ...... | ...... | 20 — | ...... | ...... | 5 ág. | 19 — | ...... | ...... | 1 okt. | ...... | 28 — | ...... | ...... |
| Siglufirði | ...... | 9 — | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | 20 — | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | 28 — | ...... | ...... |
| Sauðárkrók | ...... | 10 — | ...... | ...... | ...... | 28 apr. | ...... | ...... | 21 — | ...... | ...... | 5 ág. | 19 ág. | ...... | ...... | 2 okt. | ...... | 29 — | ...... | ...... |
| Skagaströnd | ...... | 11 — | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | 21 — | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | 29 — | ...... | ...... |
| Blönduós | ...... | 11 — | ...... | ...... | ...... | 29 apr. | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | 6 ág. | 20 ág. | ...... | ...... | 3 okt. | ...... | ...... | ...... | ...... |
| Reykjarfirði | ...... | 12 — | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | 21 júní | ...... | ...... | 6 — | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | 30 okt. | ...... | ...... |
| Ísafirði | ...... | 13 — | ...... | ...... | ...... | 30 apr. | ...... | ...... | 22 — | ...... | ...... | 7 — | 22 ág. | ...... | ...... | 5 okt. | ...... | 1 nóv. | ...... | ...... |
| Önundarfirði | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | 7 — | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... |
| Dýrafirði | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | 22 júní | ...... | ...... | ...... | 22 ág. | ...... | ...... | ...... | ...... | 2 nóv. | ...... | ...... |
| Bíldudal | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | 8 ág. | 23 — | ...... | ...... | ...... | ...... | 2 — | ...... | ...... |
| Patreksfirði | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | 30 apr. | ...... | ...... | 22 júní | ...... | ...... | 8 — | 23 — | ...... | ...... | ...... | ...... | 3 — | ...... | ...... |
| Flatey | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | 1 maí | ...... | ...... | 23 — | ...... | ...... | 8 — | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... |
| Stykkishólmi | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | 1 — | ...... | ...... | 23 — | ...... | ...... | 9 — | ...... | ...... | ...... | 6 okt. | ...... | 4 nóv. | ...... | ...... |
| **í Reykjavík** | 24 jan. | 15 marz | 12 marz | 14 marz | 17 apr. | 3 — | 8 maí | 5 júní | 25 — | 27 júní | 14 júlí | 10 — | 25 ág. | 24 ág. | 22 sept. | 8 — | 11 okt. | 6 — | 25 nóv. | 11 des. |
| **Til Vesturlandsins:** | | | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| **frá Reykjavík** | 27 jan. | ...... | 16 marz | ...... | 19 apr. | ...... | 12 maí | 8 júní | ...... | 30 júní | 18 júlí | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | 14 okt. | ...... | 28 nóv. | ...... |
| **Stykkishólmi** | 28 — | ...... | ...... | ...... | 20 — | ...... | 13 — | 9 — | ...... | ...... | 19 — | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | 15 — | ...... | ...... | ...... |
| **Flatey** | ...... | ...... | ...... | ...... | 20 — | ...... | 13 — | 9 — | ...... | ...... | 19 — | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | 15 — | ...... | ...... | ...... |
| **Patreksfirði** | 29 jan. | ...... | ...... | ...... | 21 — | ...... | ...... | 10 — | ...... | ...... | 20 — | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | 29 nóv. | ...... |
| **Dýrafirði** | [illegible] | ...... | ...... | ...... | 22 — | ...... | ...... | 10 — | ...... | ...... | 20 | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | 30 — | ...... |
| **[illegible]** | [illegible] | ...... | ...... | ...... | 22 | ...... | ...... | 10 | ...... | ...... | 20 | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... |
| **[illegible]** | [illegible] | ...... | [illegible] | ...... | [illegible] | ...... | [illegible] | [illegible] | ...... | [illegible] | [illegible] | ...... | ...... | ...... | ...... | ...... | [illegible] | ...... | [illegible] | ...... |

| | 1. Laura | 2. Vesta | 3 Ceres | 4. Laura | 5. Laura | 6. Vesta | 7. Ceres | 8. Laura | 9. Vesta | 10. Ceres | 11. Laura | 12. Vesta | 13. Ceres | 14. Laura | 15. Vesta | 16. Ceres | 17. Laura | 18. Vesta | 19. Laura | 20. Vesta |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| **Frá Vesturlandinu** | | | | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| **frá Ísafirði** | 3 febr. | | 19 marz | | 25 apr. | | 16 maí | 13 júní | | 3 júlí | 23 júlí | | | | | | 19 okt. | | 3 des. | |
| Dýrafirði | | | 20 — | | | | 16 — | | | 3 — | | | | | | | 19 — | | | |
| Bíldudal | 4 febr. | | 20 — | | 25 apr. | | 16 — | 13 júní | | 3 — | 23 júlí | | | | | | 20 — | | 4 des. | |
| Patreksfirði | | | 21 — | | | | 17 — | | | 4 — | | | | | | | 21 — | | | |
| Flatey | | | 22 — | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| Stykkishólmi | | | 22 — | | | | | | | | | | | | | | | | | |
| **í Reykjavík** | 6 febr. | | 24 — | | 27 apr. | | 18 maí | 15 júní | | 6 júlí | 25 júlí | | | | | | 23 okt. | | 7 des. | |
| **frá Reykjavík** | 10 febr. | 20 marz | 26 marz | 18 marz | 30 apr. | 10 maí | 21 maí | 17 júní | 1 júlí | 9 júlí | 27 júlí | 14 ág. | 30 ág. | 29 ág. | 27 sept. | 12 okt. | 26 okt. | 10 nóv. | 11 des. | 17 des. |
| Stykkishólmi | | | | | | | | | 2 — | | | 15 — | | 30 — | | | | | | |
| Flatey | | | | | | | | | 2 — | | | 15 — | | 30 — | | | | | | |
| Patreksfirði | | | | | | | | | | | | 16 — | | | | | | | | |
| Bíldudal | | | | | | 11 maí | | | 3 júlí | | | | | 31 ág. | | | | | | |
| Dýrafirði | | | | | | 11 — | | | | | | 16 ág. | | 31 — | | | | | | |
| Önundarfirði | | | | | | | | | 3 júlí | | | | | | | | | | | |
| Ísafirði | | | | | | 13 maí | | | 4 — | | | 17 ág. | | 2 sept. | | 14 okt. | | | | |
| Reykjarfirði | | | | | | | | | | | | 17 — | | | | 15 — | | | | |
| Borðeyri | | | | | | | | | | | | 18 — | | | | | | | | |
| Blönduós | | | | | | | | | 4 júlí | | | | | 2 sept. | | 16 okt. | | | | |
| Skagaströnd | | | | | | 13 maí | | | | | | | | | | 17 — | | | | |
| Sauðárkrók | | | | | | 14 — | | | 5 júlí | | | 19 ág. | | 3 sept. | | 18 — | | | | |
| Siglufirði | | | | | | 14 — | | | | | | | | | | 19 — | | | | |
| Akureyri | | | | | | 16 — | | | 7 júlí | | | 20 ág. | | 5 sept. | | 22 — | | | | |
| Húsavík | | | | | | 16 — | | | | | | 20 — | | | | 22 — | | | | |
| Vopnafirði | | | | | | | | | 8 júlí | | | | | 6 sept. | | 23 — | | | | |
| Seyðisfirði | | | 29 marz | | 3 maí | 17 maí | 24 maí | | 9 — | | | 22 ág. | | 7 — | | 25 — | | | | |
| Norðfirði | | | 29 — | | 3 — | | 24 — | | 9 — | | | | | 7 — | | 25 — | | | | |
| Eskifirði | | | 29 — | | 3 — | | 24 — | | | | | 22 ág. | | 8 — | | | | | | |
| Fáskrúðsfirði | | | 30 — | | 4 — | | 25 — | | 9 júlí | | | 22 — | | 8 — | | 26 okt. | | | | |
| Berufirði | | | | | | | 25 — | | | | | 23 — | | | | | | | | |
| Klaksvig | | | | | | | | | | 12 júlí | | | | 10 sept. | | | | | | |
| Thorshavn* | | | 31 marz | | 5 maí | | 27 maí | 20 júní | | 12 — | | | | 11 — | 30 sept. | 27 okt. | | | | 20 des. |
| Leith | 16 febr. | 26 marz | 3 apr. | 24 marz | 8 — | 21 maí | 30 — | 23 — | 14 júlí | 15 — | 2 ág. | 27 ág. | 4 sept. | 14 — | 3 okt. | 30 — | 1 nóv. | 16 nóv. | 17 des. | 23 — |
| Christianssand | | | | | | | | | | | | | | | | 2 nóv. | | 19 — | | |
| **í Kaupmhöfn** | 21 febr. | 31 marz | 7 apr. | 28 marz | 12 maí | 25 maí | 3 júní | 27 júní | 17 júlí | 18 júlí | 6 ág. | 31 ág. | 8 sept. | 18 sept. | 7 okt. | 4 — | 5 nóv. | 21 — | 22 des. | 29 des. |

# Hið sameinaða eimskipafélag.

## Áætlun um strandferðir á Íslandi 1905.

### *II. Austur um land:*

| Hólar | 1 | | 2 | | 3 | | 4 | | 5 | | 6 | | 7 |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | A | B | A | B | A | B | A | B | A | B | A | B | A |
| | apr. | maí | maí | júní | júní | júlí | júlí | ág. | ág. | ág. | sept. | sept. | ok[illegible] |
| **Frá Reykjavík**... | 15 | .. | 16 | .. | 10 | .. | 9 | .. | 7 | .. | 4 | .. | [illegible] |
| í Reykjavík..... | .. | 9 | .. | 6 | .. | 4 | .. | 3 | .. | 31 | .. | 29 | |
| frá Hafnarfirði .. | .. | .. | 16 | 5 | .. | .. | .. | .. | .. | .. | 4 | .. | .. |
| — Keflavík..... | .. | .. | 16 | .. | 10 | 3 | 9 | 2 | 7 | 30 | 4 | 28 | |
| — *Stokkseyri .. | .. | .. | 17 | 4 | .. | 3 | 10 | 1 | 8 | 30 | 5 | .. | |
| — Vestm.eyjum . | 15 | 7 | 17 | 4 | 11 | 2 | 10 | 1 | 8 | 29 | 5 | 27 | [illegible] |
| — Vík ........ | 16 | 7 | 17 | 4 | 11 | 2 | 10 | 1 | 8 | 29 | 5 | .. | .. |
| | | | | | | | | júlí | | | | | |
| — Hornafirði ... | 17 | 6 | 18 | 3 | 12 | 1 | 11 | 31 | 9 | 28 | 6 | 27 | .. |
| — Djúpavog.... | 17 | 6 | 19 | 3 | 12 | 1 | 12 | 31 | 10 | 28 | 6 | 26 | [illegible] |
| — Breiðdalsvík.. | 17 | 5 | 19 | 2 | 12 | 1 | 12 | 31 | 10 | 28 | 7 | 25 | [illegible] |
| — Stöðvarfirði .. | .. | .. | .. | .. | 13 | 1 | 12 | 31 | 10 | 28 | .. | 25 | .. |
| | | | | | | júní | | | | | | | |
| — Fáskrúðsfirði . | 18 | 5 | 20 | 2 | 13 | 30 | 13 | 30 | 11 | 27 | 7 | 25 | [illegible] |
| — Reyðarfirði .. | 18 | 4 | 20 | 2 | 13 | 30 | 13 | 30 | 11 | 27 | 7 | 24 | [illegible] |
| — Eskifirði..... | 18 | 4 | 20 | 1 | 14 | 30 | 13 | 30 | 11 | 27 | 8 | 24 | [illegible] |
| — Norðfirði .... | 19 | 3 | 21 | 1 | 14 | 29 | 14 | 29 | 12 | 26 | 8 | 23 | [illegible] |
| — Mjóafirði .... | 19 | 3 | 21 | 1 | 14 | 29 | 14 | 29 | 12 | 26 | 8 | 23 | [illegible] |
| — Seyðisfirði ... | 21 | 3 | 22 | 1 | 16 | 29 | 15 | 29 | 13 | 26 | 10 | 23 | [illegible] |
| — Loðmundarf.. | .. | .. | 22 | .. | 16 | 27 | .. | .. | .. | 24 | .. | .. | .. |
| | | | | maí | | | | | | | | | |
| — Borgarfirði... | 21 | 1 | 22 | 30 | 16 | 27 | 15 | 27 | 13 | 24 | 10 | 20 | [illegible] |
| — Unaós ...... | .. | .. | .. | .. | 16 | 27 | 15 | 26 | .. | .. | .. | .. | .. |
| — Vopnafirði ... | 21 | 1 | 22 | 30 | 17 | 27 | 15 | 26 | 13 | 24 | 10 | 20 | [illegible] |
| — Bakkafirði ... | 21 | .. | 23 | 30 | 17 | 27 | .. | .. | 14 | 23 | .. | 19 | [illegible] |
| — Gunnólfsvík .. | .. | .. | 23 | 30 | .. | .. | .. | .. | 14 | 23 | .. | .. | .. |
| | | apr. | | | | | | | | | | | |
| — Þórshöfn .... | 22 | 30 | 23 | 29 | 17 | 26 | 16 | .. | .. | 23 | 11 | 19 | [illegible] |
| — Raufarhöfn... | .. | .. | 23 | 29 | 18 | 26 | 16 | 26 | 14 | 23 | 12 | .. | .. |
| — Kópaskeri ... | .. | 30 | 24 | 29 | 18 | 26 | .. | 25 | 15 | 22 | 12 | 19 | .. |
| — Húsavík ..... | 23 | 29 | 24 | 28 | 18 | 26 | 17 | 25 | 15 | 22 | 12 | 19 | [illegible] |
| — Flatey ...... | .. | .. | 24 | .. | 19 | 25 | 17 | 25 | 15 | 21 | .. | .. | [illegible] |
| — Grímsey ..... | .. | .. | .. | .. | 19 | 25 | .. | .. | .. | .. | 12 | 18 | .. |
| — Grenivík..... | .. | .. | 24 | 28 | 19 | 25 | 17 | 24 | 16 | 21 | 13 | 18 | [illegible] |
| — Svalbarðseyri. | .. | .. | .. | .. | 20 | 25 | 18 | 24 | 16 | 21 | 13 | 18 | .. |
| á Akureyri...... | 24 | .. | 25 | .. | 21 | .. | 19 | .. | 18 | .. | 14 | .. | 14 |
| **frá Akureyri**.... | .. | 29 | .. | 28 | .. | 25 | .. | 24 | .. | 21 | .. | 18 | .. |

* Þegar ekki er unt að koma við á skipalæginu fyrir utan **Stokkseyri**, eða þegar ekk[illegible] komizt í land fyrir brimi, kemur skipið við í **Þorlákshöfn**, ef ástæður leyfa.

ATHUGASEMD um **ferðir milli landa.** Í **Vestmannaeyjum** verður komið við 1 hverri [illegible] suður um land, bæði út og utan, svo framarlega sem því verður við komið. Eftir komu skip[illegible] Reykjavíkur sunnan um land verður einnig komið við í **Hafnarfirði**, þegar nægilegan farm e[illegible] flytja þangað. Þegar sömu skilyrði eru fyrir hendi, geta skipin í þessum ferðum komið við á **Akr**[illegible] ef því verður við komið og full ástæða virðist til þess. — Frá **Kaupmannahöfn** fara skipin jafna[illegible] árdegis og frá Reykjavík kl. 6 síðdegis. Á millistöðvum er fyrsti fardagur tiltekinn, en [illegible] mega búast við, að síðar kunni að verða farið. — **Fargjald** milli Íslands og útlanda er í 1. far[illegible] 90 kr. (báðar leiðir 160 kr., nema milli Skotlands og Íslands 144 kr.) og í 2. farrými 60 kr. [illegible] leiðir 100 kr.). Fyrir fæði greiðist á dag í 1 farrými 4 kr. og í öðru farrými 2 kr. Hálfu [illegible] fyrir börn.

# Jens Hansen,

Vestergade 15, Kjøbenhavn K.

*Stærstu og ódýrustu birgðir í Kaupmhöfn af steypumunum*

## við hæfi Íslendinga.





GEYSISOFN (síbrennandi)
á 20 kr. og þar yfir.




Eldavél á 20 kr.

Sérstaklega mæli ég með *ofnum* með magazinbrenslu, með eldunarhólfi og hristirist eða án þeirra, á **18 kr.** og þar yfir, er fást í meir en 100 mismunandi stærðum. Ennfremur má nefna eldavélar með steikarofni og vatnskatli, 3—5 mjög stórum suðuholum, á **20 kr.** og þar yfir; þær eru og svo lagaðar, að þær megi setja niður lausar á mitt gólf með eða án múrhleðslu. Skipseldavélar í þilskip. Skipsofna og eldakompuvélar án múrhleðslu í skip og báta má fá með eldunarholum og magazinbrenslu. Ennfremur birgðir af steinolíuofnum



GEYSISOFN (síbrennandi) á 35 kr. og þar yfir.




úr járni, kopar og messing, af nýjustu og beztu gerð, sem til er. *Ofnpípur* úr smíða- og steypujárni af ýmsri *stærð*. Járnglugga í húsþök og byggingar af alls konar stærð. Galvaniseraðar fötur og þvottabalar. Gleraðar og ómelaðar steikarpönnur og pottar. Gleraðar járnkaffikönnur, tepottar, diskar, bollar o. fl.

Yfir alt þetta er til verðskrá með myndum, sem send verður ókeypis hverjum þeim, sem lætur mig vita nafn sitt og heimili.

# Keisarinn.

Þú göfugi vinur í valdanna hæðum
ég veit að þú baðar í hirðlífsins gæðum
og vona' að þú unir nú auðnunnar skini,
með eintóma höfðingja fyrir vini.

Þeir ei verða taldir, sem alla tíð þrá það,
en altaf teljandi þeir sem fá það.
Nú siturðu' í tigninni öllum ofar
hver einasti maður þig hástöfum lofar.

Svo býzt ég við árangri bráðum og vænum
af biskupa signing og prestanna bænum,
og að herinn til fylgis þér himninum bifi
með hrópinu máttuga: keisarinn lifi!

Og þrátt fyrir vinnuna vona' eg þú lifir,
þótt vilja' hinna trúu' þú undirskrifir,
og ekki það kröftunum of mikið slíti
þótt einstaka sinnum menn dýrð þína líti.

Eins vona eg að hástóllinn valtur ei reynist
og veröldin aldrei á móti þér beinist,
og seint í landinu lærist sá siður
að leggja þitt vald eins og hégóma niður.

---

En gaktu samt hljótt um þinn hallarsal. —
Þar hangir á veggjunum myndaval
af feðrum, sem samtíð og fortíð lofa.
Þeir frægustu' í marmara, fullri stærð. —
En forðastu að trufla þeirra værð.
Þér væri það bezt, ef þeir vildu sofa.

Þeir standa þar klæddir í stál — ekki gull.
Hve stór er ei bringan og hugrekkisfull
sem mynduð af tveimur miklum skjöldum.
Þeir brutust til valda. — Þeir biðu' ekki þess,

